# Ættarnöfn.

Menn eru að hugsa um málið. Skoðanirnar skiftast. Mig langar til að vísa veg í því, sem allir ætti að geta gengið saman.

---

Flestir þeir menn, sem eg hefi séð eða heyrt minnast á ættarnöfn og eru þeim mótfallnir, hafa rent þeirri meginstoð undir málstað sinn, að þau færi í bág við fornan landssið. Vér viljum halda því áfram, segja þeir, að kalla íslenzka syni og dætur föðurnafni sínu. Hér eftir eins og hingað til. Það og ekkert annað er þjóðlegt.

Já, þjóðlegt er það. Eg er þeim alveg samdóma um það. Það er jafn-þjóðlegt á Íslandi nú eins og það hefir einu sinni verið í öllum löndum. Það er jafn-íslenzkt í dag eins og það var enskt eða þýzkt fyrir mörgum öldum. Og það hefir ekki verið nándar nærri jafnlengi íslenzkt eins og það hefir verið danskt eða norskt eða sænskt eða grískt eða rússneskt. Ef eitthvað er því þjóðlegra, sem það hefir náð lengur festu með þjóðunum, þá eru ekki nema nokkrir áratugir síðan föðurnöfnin voru miklu þjóðlegri í Danmörku heldur en þau eru nú eða hafa nokkurn tíma verið á Íslandi. Lengra er ekki liðið síðan er ættarnöfn voru tekin upp hvarvetna þar í landi. Þau voru gerð þjóðleg með lögum.

Og eingöngu íslenzkt er það ekki heldur enn í dag, að menn séu nefndir föðurnafni sínu. Það er enn gert í sveitum í Noregi, Svíþjóð, Rússlandi og víðar. En í borgunum hafa ættarnöfnin orðið ofan á. Og annað þekkist ekki heldur nú orðið með öllum mentaþjóðum heims,

nema þá með þeim hluta þjóðar, sem skemst er á veg kominn í menningaráttina.

Nú skal eg staldra ofurlítið við.

Menn kunna að spyrja: Er þetta mál nokkurt menningaratriði?

Eg staldra við til að játa því.

Það er henni svo samgróið, að ef mentaðir menn með öðrum þjóðum vita um eitthvert land, að þar séu menn alment nefndir föðurnafni sínu, að ættarnöfn séu þar engin til, þá dettur þeim í hug um leið, að sú þjóð sé ekki stödd á háu menningarstigi. Ekki af því vitanlega, að þeim komi til hugar, að nokkurt menningargildi sé fólgið í nöfnum einum. Heldur af hinu, að þeir vita hvernig ættarnöfn eru orðin til. Þeir vita að þau eru tekin upp í fyrstu til að glæða og halda við *ættartilfinning*. Og þeir vita að hún er eitt með mörgum þroskaskilyrðum hverrar þjóðar; að hún er jafnvel mest í því þjóðfélagi, sem mestan á þroskann. En þjóðfélagsþroski heitir öðru nafni menning.

Þeir mundi ekki þykja víðlesnir í náttúruvísindum síðari tíma, sem hefði ekki hugmynd um, hvað ættartilfinningin væri sterk og stæðileg grein á þróunarstofni lífsins. Sumir vísindamenn hafa nefnt hana græðiblað mannástarinnar — *altruismans*; þaðan sprytti hún út, sú hin mikla samúð við mennina, sem nefnd er því nafni.

Menn, sem eru á algerlega gagnstæðri skoðun um þróunarlögmálið, eru þó sammála um það, að ættartilfinningin ráði meiru en litlu um þroskaviðleitnina. Eg skal rétt til dæmis nefna til tvo menn, þá Darwin og Krapotkin. Báðir eru á sama máli um það, en hvor á sinni skoðun um lögmál þroskans. (Darwin hélt því fram, eins og kunnugt er, að aflmestu einstaklingarnir bera hæstan hlut í lífsbaráttunni, en Krapotkin hinu, í bók sem hann hefir ritað fyrir nokkrum árum, að félagslyndu einstaklingarnir séu þeir, sem þar hafi betur.

*Gerhard Gran* heitir þjóðkunnur rithöfundur, norskur: prófessor við háskólann í Kristjaníu og ritstjóri helzta

tímarits Norðmanna (Samtiden). Hann segir svo um Björnstjerne Björnson:

— Ein af aðal-lindunum, sem lífsstarf Björnsons alt og skáldskapur er runnið úr, er — — — ættartilfinningin..... Í öllum hans skáldskap, alt í frá Sigrúnu á Sunnuhvoli og fram til Laboremus, (það var þá síðasta bók hans), er ættartilfinningin eitt af því hinu mikla og stórfenga, sem hefir alt af borið fánann jafnhátt, hvað snögg og mörg sem skoðanaskiftin hafa orðið. Ættartilfinningin er miðdepillinn, stofninn; þaðan dreifist ást hans til mannanna, dreifist sí og æ í stærri og stærri hringum.

Þarf eg að eyða fleirum orðum að því, að ættartilfinningin sé ekki engisverð? Og þarf eg að eyða nokkrum orðum að því, að ættarnöfnin glæði hana og haldi henni við? Þarf eg nema að segja það? Skilja þá ekki allir, sem hugsa um það sjálfir?

Vafalaust. En menn kunna að leggja til andsvör.

Þeir kunna að segja: Íslendingasögur eru flestar ættarsögur, byrja flestar á ættartölum. Ættartilfinning hefir aldrei verið meiri hér á landi en þegar þjóðlíf vort stóð með sem mestum blóma. En — ekki voru þá nein ættarnöfn til að halda henni við. Komumst við þá ekki eins af án þeirra nú?

Spurningunni er auðsvarað.

Henni er auðsvarað með því, að biðja spyrjanda að lesa vandlega fornritin, og vita hvort honum finst ekki löggjöf þjóðarinnar og átrúnaði svo háttað, að hvortveggja hafi haldið ættarvitundinni mun betur vakandi í hugum manna en þau gera nú.

Og sama máli gegnir um Grikki og Rómverja á gullöld þeirra. Eftir hana liðna er það einmitt, að ættarnöfn komast á með annari þeirri þjóð, Rómverjum. Þeir verða fyrstir þjóða til að taka þau upp með líkri tilhögun og nú er víðast hvar um heim allan.

Og þaðan dreifast þau um öll lönd.

Hægt og hægt í fyrstu, og ekki nema um nágrannalöndin lengi vel. Þar eru þau tekin upp óbreytt, alróm-

versk; bæði að merkingunai til og endingum. En svo koma þjóðflutningarnir, og ættarnöfnin berast með þeim norður á við. Eftir það hverfur mikið til af þeim rómverski blærinn. Þau verða úr því hver með sérblæ sinnar þjóðar.

Og það hafa þau verið æ síðan víðast hvar. Þjóðirnar hafa skapað þau sjálfar, hver úr sinni tungu; með því móti hafa þau orðið þjóðleg.

Nú er svo komið, að þau hafa dreifst um öll lönd Norðurálfu, og víðast hvar náð þjóðfesti fyrir langa löngu.

Hún hefir hvergi stoðað, mótbáran sú, að þau væri ekki þjóðleg. Og hún stoðar ekki heldur hér. Aðrar þjóðir hafa ekki viljað halda í föðurnöfnin með öllum sínum þjóðerniskostum. Þau eru ekki orðin annað en úrkast.

Og sú skoðun, að þjóðernið missi nokkurs í, þó að upp séu tekin ættarnöfn, hún er ekki annað en meinlaust skammsýnisský, sem getur aldrei skygt á neina birtu. Það hverfur þegar minst vonum varir — hér eins og annarstaðar.

Þá hefir verið færð til önnur ástæða gegn ættarnöfnum. Sagt, að föðurnöfnin hefði það fram yfir, að konan þyrfti aldrei að láta nafn sitt, — það yrði ekki skafið út með giftingunni; málið væri kvenfrelsis-atriði. Ekkert væri líklegra en að gamli siðurinn yrði tekinn upp aftur, þegar konur hefði náð fullu jafnrétti við karlmenn.

Eg skal verða síztur manna til að tefja fyrir kvenréttindamálinu á hvaða svæði sem er. Eg ann því meira gengis en svo. Þeim mönnum, sem halda eg geri það þó með þessu, skal eg veita úrlausn.

Eg átti tal um þetta hérna á dögunum við gáfaða konu, frú hér í bænum. Henni fórust orð á þessa leið:

— Hvernig getur nokkrum lifandi manni dottið í hug, að ættarnöfn séu fremur vottur um réttleysi kvenna en föðurnöfnin? Það er þvert á móti. Það stendur svo á því, að það eru eingöngu til föðurnöfn, en *ekki móðurnöfn* — ekki þá nema í háði. Ef hjón eiga sama heiti, þá erfa börnin það, erfa nafn foreldranna. Ef hvort hjón-

anna heitir sinu föðurnafni, þá eru börnin vitanlega ken við föðurinn einan. Enginn mundi kunna við, að þa væri kend við móður sína. Enginn mundi kunna við a heita Jónas Rannveigarson (í stað: Hallgrímsson) eða Snor Guðnýjarson (í stað: Sturluson). Alla mundi hún stórleg hneyksla, breytingin sú, að farið væri að taka upp móðu nöfn. Og þó á konan fylsta rétt til þess að börnin sé kend við sig, móðir þeirra, engu síður en föðurinn. Þett eitt sér er stórmikil ástæða til að upp séu tekin ættarnöfı

Mér finst nokkurn veginn ljóst af þess, að föðu nöfn verða aldrei tekin upp aftur til að koma á meiı jafnrétti milli karla og kvenna. Hitt er miklu líklegra a komist á smám saman, að nafnaskiftin með hjónabandin verði jöfn á báða bóga. Það verði eftir samkomulagi, hvoı konan tekur heldur upp nafn bóndans eða hann henna Nafnfræg kona á ilt með að láta nafn sitt við giftinguni Ætti hún mann, sem lítt væri þektur, væri honum mikl nær að taka upp hennar nafn.

En framtíðin um það.

Hitt vona eg að allir sjái, að það nær engri átt, a jafnrétti kvenna missi nokkurs í við það, að ættarnöfn er tekin upp í stað föðurnafna. Það er önnur skammsýnin ti

Og hin þriðja er sú, að ættarnöfn rugli ættartölur.

Þetta er sagt hér á landi. En annarstaðar, sem s þar, sem menn hafa reynt það, þar vita þeir að munuı inn er allur annar.

Það mætti æra óstöðugan, ef ætti að eltast við a svara öllum mótbárum jafnlélegum og þessari. Skylc jurtafræðin vera örðugari viðfangs fyrir það, að jurtunuı er skift niður í ættir? Eða þekkingarmolar vorir yfirleiı grautarlegri fyrir það, að þeim er raðað niður í fræði kerfi? — —

Og á einn kostinn enn skal eg benda.

Það er sumstaðar geysi-mikið til af þeirri tilhneigin að uppnefna fólk. Það er eins og hún verði að veiki sumum mönnum. Nú orðið þykir það hvarvetna heldu

skrælingjaleg ánægja, ekkert annað en andlegur hirðuleysissjúkdómur, sem hreinlegum mönnum er andstygð. Með flestum menningarþjóðum heims er hann horfinn að miklum mun. Ættarnöfn hafa læknað hann, segja sagnfræðingar. Uppnefnin þrífast hvergi betur en þar, sem til eru eingöngu persónunöfn án ættarnafna (*A. Olrik*). Það stendur svo á því, að þar sem ættarnöfn tíðkast, eru menn sjáldnast nefndir skírnarnafninu einu saman. Annaðhvort ættarnafninu eingöngu — og ef viðurnefni væri þá hnýtt þar við, þá væri ættin uppnefnd, en ekki maðurinn. Eða þá að menn eru nefndir báðum nöfnunum saman, og uppnefninu verður þá alveg ofaukið.

Og það á það á þeim alstaðar að verða: þeim á hvergi að verða landvært. Oft og einatt eru þau ekki runnin af öðrum rótum en lúalegum hefndartilraunum einhverrar sálaragnar, sem kann ekki annað ráð en þetta til að svala sér, — en hver maður, tiginmannlega lyndur, hefir andstygð á.

---

Eg býst ekki við, að allir þeir, sem hafa verið mótfallnir ættarnöfnum hingað til, láti nú af skoðun sinni fyrir þá sök, að hér hafi komið fram rök í málinu.

En eg býst við öðru.

Eg býst við því að allir sjái, að það er ekki til neins að spyrna lengur móti broddunum. Og það sjá þeir af alt öðru. Þeir sjá það af því, að þeim er óðum að fjölga, sem hér taka upp ættarnöfn. Nærri því hver embættismannskona hér í bæ, og margar konur aðrar, hafa tekið upp nöfn manna sinna; ættarnöfn, ef þeir hafa átt sér þau; annars föðurnöfn þeirra. Meira að segja: Hjón vilja eiga sér sambeiti, þó að þau geri það ekki að ættarnafni. Og stundum er þeim það nauðugur einn kostur.

Eg skal taka til dæmis allar danskar konur, sem hingað giftast. Það er farið svo með nöfn þeirra flestra

að þær eru nefndar »synir« tengdafeðra sinna — af þv að engin ættarnöfn eru til. Og það er ekki nema von mönnum hefir ekki verið bent á annað ráð.

Ef eg héti Sigurður Höskuldsson, og ætti danska kon: sem héti Karen Jörgensen, vilja þá þeir, sem eru mótfallni ættarnöfnum, gera svo vel og segja mér, hvað eg ætti a kalla konuna mína annað en Karen Höskuldsson?

Frú Karen Höskuldsson, — fallegt er það ekki, drotı inn minn!

Eg þekki fá óspilt íslenzku-eyru, sem það hneyksla ekki, þetta sonar-nafn kvenna. Þau geta ekki vanist þvi það lætur svo illa í eyrum. Og það er af því og eng örðu, að mönnum finst það vera rökfræðileg fjarstæðı Það gildir einu þó að þeim sé sagt, að það tákni ekk »sonur«. Það er einmitt það sem við vitum, segja þeiı og þess vegna viljum vér ekki heyra það nefnt. Við könr umst ekki við þann »son«, sem táknar ekki neitt.

Og þá tilfinning finst mér að öllum sé skylt a virða.

Hún er sprottin af því einu, að íslenzkan er sjálfsag eitt hið rökréttasta mál, sem nú lifir á vörum nokkurra þjóðar. Af hverju? Af því að hún hefir reynst trúus sjálfri sér, af því að hún hefir varðveitt eðli sitt bezt allr tungna. En hvað lítið sem brotið er móti eðli tungunn ar, er það altaf nógu mikið til þess, að það sljófgar næm leikann við fegurð hennar.

Og það er að misþyrma tign og eðli hverrar tungı að láta orð merkja alt annað eða gagnstætt því, sem þa merkja áður að allra vitund. Ef orðið: »son« væı týnt úr nútíðarmáli, þá væri alt öðru máli að gegna a koma sér saman um, hvað það skyldi merkja héðan a En ef fjölda af jafn-rökröngum orðum, og sonar-nafnið e á konum, er leyfð landganga í málið, þá er það eitt kapı nóg til að spilla því.

Það er langt stökk úr gömlu venjunni, þeirri, að nefn alla menn föðurnafni sínu, og yfir í hina, að nefna konu sonar-nafninu. Nú er sægur óskyldra karla og kvenna

sem nefna sig Jónsson. Ef ekkert er að gert, verður þá ekki farið t. d. að nefna konu einhvers Einars Jónssonar frú Einar Jónsson, að útlendum sið, til þess að menn viti við hverja frú Jónsson er átt? Sveitamenn, sem ekki þekti til þess arna, mundu halda að verið væri að skopast að þessum veslings Einari Jónssyni, það væri hann, sem væri kallaður frú! En úr því að sonarnafn kvenna er komið á, þá er örskamt á milli hins, að farið verði að nefna þær fullu nafni manna sinna. Og þá er smiðshöggið rekið á.

Mér koma í hug ráð til að varðveita tunguna frá þessum nöfnum og öðrum eins; og því er það, að eg rita þessar línur.

Og fyrsta ráðið er þetta: Vér eigum að koma hér á ættarnöfnum. Þeir, sem hætta ekki að vera þeim mótfallnir, þeir gera málefni sjálfra sín meira ógagn en nokkrir aðrir. Þeir eru helzt mótfallnir þeim af því, að þau eru ekki þjóðleg. En það er miklu óþjóðlegra að sporna við því, að tungan hreinsist af alls konar kolsvörtum skrípanöfnum, sem alstaðar lita frá sér.

Deilan á ekki að vera um það, hvort vér eigum að taka upp ættarnöfn. Hún á að vera um valið, ef hún er nokkur.

Mér vitanlega hefir ekki komið fram um það nema ein tillaga, sem vit er í. Hún er sú, að gera að ættarnöfnum karlmannsnöfn með eignarfallsendingum. T. d. að taka, að maður, sem heitir Jón Sveinsson, kalli sig Jón Sveins, konan hans Guðrún Sveins, dóttir hans Þórdís Sveins o. s. frv., og ættin nefnd Sveins-ættin.

Þetta hefir einn kost og enga fleiri. Það er íslenzkt.

En ef þetta kæmist nú á, þá líður ekki á löngu áður en sá kostur hverfur; það hættir að vera íslenzkt, — og þá erum vér ekki betur staddir en áður. Ef það á að halda áfram að vera íslenzkt, þá verður alt af að nefna bæði nöfnin í einu, hvenær sem nefnt væri ættarnafnið. Og það er ókostur, enda yrði það ekki gert til lengdar. Útlendum mönnum t. d., hvar sem væri, dytti það ekki í

hug. Karlmann af Sveins-ættinni mundu þeir kalla Sveins, konuna frú Sveins og dótturina jungfrú Sveins. Og smátt og smátt kæmist hún á, sú venja.

En ekki mundi öllum falla það betur en sonarnafnið; ekkert vit er í því að nefna menn eignarfallinu einu saman.

Reyndar er vörn í málinu.

Hún er sú, að vér munum geta vanist af að líta á þessi nöfn svo sem væri þau eignarföll, af að vér höfum vanist af því um önnur orð í málinu. Vér hugsum oss endingu þeirra afleiðsluending í stað fallendingar. Svo er t. d. að taka um orðin lax og hams (flt. hamsar), að fyrra orðið er ekkert annað en eignarfall af lag og hið síðara af hamur.

En vér gætum sjálfsagt illa vanist því, þó að vér vissum það væri rétt, af því að dæmin eru ekki heldur til svo mörg í málinu. Og þar að auki yrði það kerfi einstaklega einhliða. Ættarnöfnin sniðin upp úr mannanöfnum einum, yrðu öll að enda á sama staf, s. Ekkert beygjast veikri beyging. »Árna« væri óhafandi, og »Bjarnar« væri ekki eftir neinum réttum reglum.

Það er til þess tekið um norsk ættarnöfn, hvað þau eru falleg og þjóðleg og fjölbreytt Það ættu ekki íslenzk ættarnöfn að verða síður. Tungan á nóg til af þjálum og gullfallegum orðum, sem gera má að ættarnöfnum, ef rétt er farið með. Og það er síður en svo að vér þurfum að sníkja á aðrar tungur, að vér getum búið til ættarnöfn svo þúsundum skiftir, með því einu móti að láta orðin hlíta einu lögmáli, sem skapast hefir í málinu. Taka þau öll úr einu kerfi. Með þeim hætti verða þau tvent í einu: bæði fjölbreytt og einföld.

Og nú skal eg benda á leiðina.

Vér eigum að velja þjál og falleg nöfn á hverju sem er, hlutum, hugtökum, mönnum. Og vér eigum að sleppa beygingum þeirra, og halda eftir rótinni einni. Meðal

margs annars fyrir þá sök, að kynferði orðsins sést venjulegast á beygingu þess.

Í öllum málum er einhver tilhneiging til að gera orðin einfaldari með þessum hætti. Tilhneiging sem vex, jafnóðum og málið þroskast. Allir vita um enskuna, eitt hið langþroskaðasta tungumál heimsins.

Og í svo breytingaríku máli, sem íslenzkan er, gætir þess svo að kalla hvar sem gripið er til.

Það er til aragrúi orða í málinu, sem hafa aðeins eina fallending — eignarfallið; hinum hafa þau týnt smám saman. Öll kvenkynsorð af samhljóðendastofnum hafa hlítt þessari reglu, nærri því undantekningarlaust. Dæmi: eik, geit, greip, grind, hind, kinn, kverk, mjólk, rist, síld, og óteljandi margt fleira.

Öll ja-stofna kvenkynsorð hafa breytt nefnifallsendingu frá því sem var í fornu máli, svo að hún hefir orðið eins og hinar fallendingarnar tvær (þf. og þgf.). Hún var áður *-r* og þolf.- og þáguf.-endingar *-i*. Dæmi: ermr, eyrr, festr, veiðr, o. s. frv. En nú eru þrjú fyrstu föllin orðin eins fyrir langa-löngu. Þetta dæmi sannar ekki annað en tilhneiging til þess að gera orðin einfaldari. Ekki með því að sleppa beygingarendingum eins og í fyrra dæminu, heldur með því að setja á þær sama mót.

En það er ekki til nokkur beygingaflokkur í íslenzkri málfræði, þar sem ekki er sægur af dæmum þess, að fallendingar eru lagðar niður. Eg tek hér til nokkur dæmi af handahófi:

Nefnifall. Öll karlkynsorð, sem enda á *-ar:* annar, hamar, Gunnar, o. s. frv. Nokkur karlkynsorð ja-stofna með stuttri rótarsamstöfu: byr, bær, gnýr, her, o. s. frv. Mörg u-stofna orð: ár, ás, björn, knörr, son, vin, örn, o. s. frv. Mörg a-stofna orð: akur, fugl, háls, hrafn, ís, karl, kurr, skafl, o. s. frv. Lýsingarorð t. d.: hvass, laus, sagnorð t. d.: les, vex.

Þolfall. Engin ending.

Þágufall. Flest a-stofna kvenkynsorð: hlíf, laug, sök, o. s. frv. Og mörg karlkyns: ís, stóll, o. s. frv., og

flest þau orð, sem hafa langan rótarhljóðstaf. Flest i-stofna karlkynsorð: staður, dalur, t. d., og því nær öll kvenkyns: sótt, för, önd, o. s. frv. Va-stofna orð: söngur, ör, o. s. frv. Öll ja-stofna karlkynsorð með stuttri rótarsamstöfu: bekkur, belgur, drengur, drykkur, dynur, leggur, lækur, mergur, og — eg má ekki vera að því að telja þau öll upp. Í sumum þessum orðum er ekki lengur til nema eignarfall, t. d: her. U-stofna orð: liður, limur, litur, siður, o. s. frv. Eg hefi áður minst á samhljóðendastofna.

Eignarfall. Það fellur sjaldnast niður, nema vegna framburðarins, t. d. undan *ls:* Aðils, Gils, frjáls, háls, o. s. frv.

Einu dæmi skal eg bæta við enn til að sýna fram á, að málið verður því óbrotnara að öllum beygingum, því meir sem það þroskast og lengra líður fram. Dæmið er eignarfornöfnin: okkarr, ykkarr, yðvarr. Hvert þessarra orða hafði í fornmálinu ellifu endingar: föllin fjögur, tölurnar tvær, og kynin þrjú. Nú er hvert þeirra ekki til nema í einni mynd, óbeygilegt í öllum kynjum, tölum og föllum. Og svona eru dæmin á hverju strái. Hér er eitt: Gjafir frá mörg hundruð konum. Í fornmálinu: frá mörgum hundruðum kvenna. Mörg hundruð gert óbeygilegt í nútíðarmáli. — Og annað til: Þá er alt öðru máli að gegna. Í stað: öllu öðru o. s. frv. Þriðja: *Til frú* Guðrúnar, í stað: til frú*ar* G. Og svona gæti eg haldið dæmunum áfram í allan dag.

En hér ætla eg að hætta.

Eg hefi leitt til þess sannanir, að orð sem hlíta þessum lögum — fella niður fallendingar, að minsta kosti allar nema eignarfallið, — þau eiga á sér fullkominn málfræðislegan rétt. Þau eru í alíslenzkum búningi eftir sem áður. Ef þessari reglu er fylgt, þá er ekkert annað gert en það, að lögmál, sem til er í málinu, er ekki vanrækt. Og úr því að búningurinn er alíslenzkur, þá er það hverjum í lófa lagið, að láta nöfnin verða háíslenzk að öðru leyti, láta orðin vera íslenzk,

merkinguna íslenzka. Það getur hver, sem vel kann að velja.

Það er ekki satt, að ættarnöfn geti ekki orðið íslenzk. Það er ekki satt, að tungan okkar sé svo ófullkomin; það er ekki annað en fátæktar-barlómur þeirra manna, sem vita ekki hvað hún er rík. Alíslenzk geta þau orðið, og eg hefi bent hér á eitt kerfi, eina reglu, sem velja má eftir. Hér eru að eins tekin upp um 40 nöfn, rétt til sýnishorns:

*Aðils Arnald Ármann Ás Ásberg Ásgarð Ásvald Berg Blæng Bólstað Dag Dagvið Dal Dalar Dungal Foss Gils Goðberg Gullharð Hagbarð Hamal Hamar* Heming Hermann Hervarð Hraundal Kalman Kjarval Kvaran Ríkharð Sigfast Skóg Sólberg Steinar Storm Vagn Val Valagils Valberg Valgarð Víkar.*

Mörg af þessum orðum hafa lagt niður sum föllin.

Eg hefi meiri trú á því, að ættarnöfn þessa kerfis komist á, heldur en önnur nöfn. Eg hefi leitað vandlega í málinu, og ekki fundið neitt kerfi, sem hefir nándar nærri jafnmikla kosti og þetta. Ekkert sem er jafn-fjölbreytt eða fallegt eða íslenzkt.

Og hvernig á nú að koma því á?

Eg ætlast vitanlega ekki til að þjóðkunnir menn fari nú að taka sér upp ný nöfn, og rjúfa svo nafnhelgi sína. Hitt er annað mál, að þeir fái börn sín til þess.

Eg ætlast ekki heldur til að nöfnin eigi að bíða eftir næstu kynslóð, að hún vaxi upp. Vitanlega væri sjálfsagt, ef þau ætti að komast á, að sem flest börn yrði skírð þeim hér eftir. En það er ekki nóg. Ef ekkert meira er að gert, þá nær sonar-nafn kvenna fullri þjóðfesti hér áður en langt um líður. Og ekki þau ein. Önnur nöfn miklu lakari að öllu, — hálf-íslenzk, hálf-dönsk, en algerð ónefni — verða sveitlæg í málinu, (Loðmfjörð, Borgfjörð, Stephensen, Thoroddsen, Melsteð o. s. frv.), eins og sum þeirra eru orðin.

---

*) Nafnið er til.

Nei, eg ætlast til frekari aðgerða.

Eg ætlast til að allir ungir menn, karlar og konur, þeir sem vilja að jafnrökrétt og hreint og tignarlegt mál, sem íslenzkan er, eigi sér samboðin mannanöfn, þá tegund þjóðernis, sem einna mest ber á, — eg ætlast til að þeir allir taki sér upp falleg og alíslenzk nöfn, sem gera má að ættarnöfnum.

Það verða sjálfsagt áður langt um líður valin miklu fleiri nöfn úr þessu kerfi, sem eg hefi bent hér á. Úr þeim á svo hver að geta valið, sem kann ekki nógu vel til sjálfur að fara rétt með nöfnin. Vandinn er ekki allur sá að fella niður föllin (eignarfallinu er oftast betra að halda, enda er það alstaðar gert); það verður að skeyta saman réttar rætur, hafa miskvæða frumrótina eftir því hver rótarsamstafa er höfð að endingu o. s. frv. Vafstursminst er að fá mönnum nöfnin sjálf í hendur — enda verður það gert. Það kunna ekki nema svo fáir að fara eftir reglum.

Eg tel það engum skyldara en mér, að verða fyrstur til að taka upp nafn úr þessu kerfi.

Ef kerfið kemst á, þá veit eg það er eina ráðið til að losa tunguna við ónefnin, forða henni undan fleirum, og auðga hana að öðrum fegri — teknum úr fórum hennar sjálfrar.

Því vil eg feginn vinna að því, að sem flestir taki upp slík nöfn. Og eg skal byrja. Eg breyti nafninu: *Guðmundur Jónsson* í undirritað nafn. Og æski þess að verða ávalt hér eftir nefndur því heiti.

Eg veit að fleiri koma á eftir.

* * *

Þjóðernið er jarðvegur alls þjóðfélagsgróðrar. Það er eins og gróðurinn geti aldrei landvanist þar, sem sá jarðvegur er ófrjór. Og þar sem hann vantar, þar er samfélaginu það ofnefni, að heita þjóð.

En hitt þykir yfirburðamark hverrar þjóðar, að alt það gott, sem sáð er til í jarðvegi hennar, og komið er

frá öðrum þjóðum, geti vanist þar bæði lofti og landi: orðið þjóðlegt. Það er stundum að því ótrúlegur viðskiftaléttir.

Víðtækastan skilning á ættjarðarástinni hefir sá maður, sem fer að eins og vorið: að hann ryður burt því gamla, sem ónýtt er; hitt yngir hann upp. Og hann gerir meira. Hann veitir athygli hverjum nýjum straumi, sem veita má inn í þjóðlífið. Þetta er ljóssæknin.

Jarðvegurinn er misfrjór með þjóðunum. Og ræktunaraðferðin misjöfn. Það verður stundum að byrja á því, sem smæst er. Tína steinana ofan af.

Guðmundur Kamban.

# Um rotþrór

*(Septic tank).*

---

Óhreinindi úr mannabýlum eru þrenns konar, sorp, skolp, saurindi (saur og þvag).

Á sveitaheimilum valda þessi óhreindi litlum vandræðum. Sorpinu (sorpi, ösku, alls konar rusli) er safnað í haug, öskuhauginn. Skolpinu er helt í hlaðvarpann og gerlarnir í moldinni taka við því og sundra því, og grösin éta leifar þeirra. Saur og þvagi er safnað í for (hlandfor) og úr henni er borið á túnið og allir vita að þessi áburður er ágætur matur handa grasinu.

Ef bygðin eykst og mörg heimili hnappa sig saman í þorp eða stórbæi, þá vandast málið; þá geta óhreinindin safnast fyrir og valdið mestu óþægindum, rotnunarfílu og farsóttum, einkum taugaveiki.

Þess vegna er það lögskipaður siður í öllum myndarbæjum nú á dögum, að koma burtu tafarlaust öllum óhreinindum. Sorpi er safnað í járnkistur, eina eða fleiri við hvert hús; úr þeim er hvolft í vagna, einu sinni í viku eða oftar, og ekið út úr bæjunum; þar er því brent eða blandað saman við áburð á yrkta jörð. Skolpi öllu úr húsum er veitt um holræsi neðanjarðar út úr bæjunum. Saurindum er safnað í vatnsheld ílát í salernunum og flutt í þeim út úr bæjunum jafnóðum og þau fyllast og haft til áburðar á yrkta jörð; þó er nú orðið tíðara að láta saurindin fara úr salernunum niður í holræsin saman við skolp og regnvatn og er þá vatn látið buna í skálina undir salernissetunni í hvert sinn, sem einhver hægir sér;

skolar vatnið öllum saurindunum niður um pípu, sem liggur úr salerninu niður í holræsið í götunni, sem húsið stendur við; er því salernið jafnan tárhreint og þeflaust (water closet).

Það er einhver hin helzta hreinlætisnauðsyn í öllum bæjum, smáum og stórum, að öllu skolpi, mannasaurindum, skolavatni og regnvatni sé veitt í holræsum út fyrir endimörk bæjarins.

Alt þetta útrensli samanlagt verður á við stóran læk, eða stóra á, eftir stærð bæjarins. Það eru ljótir lækir, grámórauðir, gruggugir og daunillir, fullir af alls konar rotnunarefnum og margs konar sóttkveikjum.



1. mynd.

Hvað á að verða um alt þetta óþverralega óhollusturensli?

Þeir bæir eiga hægt um vik, sem standa við sjó fram. Þeir veita öllu skolpi í hafið. Og lengi tekur sjórinn við.

En bæir langt frá sjó eru illa settir; ef þeir veita skolprenslinu í ár eða læki, getur af því hlotist óbærileg óhollusta fyrir þá, er neðar búa við vatnsfallið. Í Englandi hafa verið sett lög, er banna bæjum að saurga vatnsföll (River Pollution Act).

Menn hafa því leitað ýmsra ráða til að hreinsa skolprensli úr bæjum. Sumstaðar hafa menn t. d. látið skolpið

renna í stórar þrór utanbæjar og sett í það ýms efni, sem eyða rotnun og botnfella óhreinindin; það er mjög dýr aðferð.

Þá hafa ýmsir bæir (t. d. Berlin) tekið það til bragðs, að kaupa stórar bújarðir í grendinni og veita skolpinu á akra og engi; þar verður það jarðvegsgerlunum og gróðrinum að bráð og kemur í áburðar stað. En þetta er einnig mjög kostnaðarsamt og verður ekki komið við alstaðar.

Það þótti því mikil nýjung, er enskur verkmeistari, Cameron að nafni, fann nýja, ágæta og ódýra aðferð til að hreinsa skolp og saurrensli úr bæjum eða einstökum



2. mynd.

húsum. Þessi nýja aðferð, það er hin svo nefnda rotþró (Septic tank).

Cameron á heima í bænum Exeter (um 50 þús. íbúar) á Suðurenglandi og er enn á lífi. Þangað hefi eg komið, og fyrsta rotþró Camerons er þar enn til sýnis. Í gestabókinni var fjöldi nafna, læknar og verkmeistarar úr öllum heimsins áttum.

Þessi gamla rotþró er eins og stórt leiði tilsýndar, grasgróinn hóll, aflangur, og upp úr honum miðjum járnsúla, og efst á henni ljósker fyrir gasljós. Innan í hólnum er stór steinþró, lokuð; í hana rennur gruggað ræsa-

skolp; það staðnæmist í þrónni; og nú ber margt til í senn: Málmkorn og sandur, ef nokkuð er, sekkur til botns; korkagnir og tréflísar og þess konar dót sezt á yfirborðið; en rotnunargerlar aukast og margfaldast unnvörpum í kyrðinni og loftleysinu og sundra lífrænu efnunum (dýraleyfum og jurta) í skolpinu, svo að þau verða að ólífrænum efnum eða leysrst upp; við þessa efnasundrun kemur meðal annars gas úr skolpinu, og er eldfimt; því var ljóskerið; gasið úr rotþrónni var ljósmaturinn, og þetta auðvitað gert fremur til gamans en gagns. Ræsaskolpið er látið fara svo hægt í gegnum rotþróna, að það standi þar við heilan sólarhring. Hlemmur var á hólnum og



3. mynd.

mátti þar sjá niður í þróna: sá þar í mjög ógeðslega skán!, í henni eru korkagnir, bréfsnuddur, tréflísar, slí, ógrynni af rotnunargerlum og alstaðar loftbólur (gas). Skolpið rennur inn í annan endann á þrónni, inn undir skánina, en út um hinn endann og útrenslið einnig undir skáninni — hún má ekki haggast. Hani var á útræsinu, svo að sýna mætti skolpið eins og það er, þegar það kemur úr þrónni. Eg sá það í glerílàti. Það var mjög svipað jökulvatni og dálítill óþefur af því.

Þetta þunna skolp úr rotþrónni er nú látið renna í aðra þró, opna og grunna, sem er full af gjalli. Loftið

og gerlarnir i gjallhrúgunni lúka hreinsuninni. Þegar skolpvatnið kemur út úr gjallþrónni þá er það orðið b l á t æ r t og öldungis e n g i n l y k t a f þ v í, alveg eins og lindarvatn. Gjallþróna má fylla einu sinni; svo verður að



4. mynd.

hleypa úr henni og lofa henni að viðra sig um stund, áður en nýrri fylli er hleypt í hana úr rotþrónni.

Rétt hjá þessari litlu rotþró voru aðrar stórar rotþrór og fjöldi af gjallsíum, sem bærinn Exeter hafði látið gera

handa sér. Úr þeim renna tærir lækir út í á, sem rennur gegn um bæinn, og er þaðan alllöng leið til sjávar og bygð hvívetna fram með ánni.

Cameron hefir hugsað og smíðað haglegan útbúnað, sem beinir sjálfkrafa renslinu úr rotþrónum úr gjallsíurnar, hverja á fætur annari, upp aftur og aftur, svo að þær fái að viðra sig á víxl.

Þetta mannvirki má hafa stórt eða lítið eftir vild, fyrir eitt hús eða heilt hverfi.

Það er ekki mjög dýrt.

Og viðhald og rekstur nemur mjög litlu, t. d. um 450 kr. á ári fyrir rotþró og síur, er hreinsa skolp úr bæjarhverfi með 5000 íbúum. Ef rotþróin er vel gerð, þarf afarsjaldan að hreinsa hana, ekki nema 2.—5. hvert ár. Gjallsíurnar þurfa ögn meiri hirðingu.

Það hefir verið margrannsakað, hvernig fer um sóttargerla, þá sem eru í ræsaskolpi, t. d. taugaveikissóttkveikjuna.

Og öllum ber saman um að urmull af þessum skaðvænu gerlum drepist í rotþrónni og síunum. Er talið öldungis hættulaust, minsta kosti fyrir skepnur, að láta hið tæra vatn úr gjallsíunum renna hvar sem er, í ár, eða læki, eða stöðuvötn.

1. myndin er af rotþró með síum við Fredensborg, sumarhöll konungs vors. 2. og 3. mynd sína líkan útbúnað (í Englandi). 4. mynd sýnir lítinn útbúnað úr stáli fyrir einstök hús; hærra ílátið er rotþróin; lægra ílátið er gjallsían og ofan á gjallinu einfaldur umbúningur, sem veldur því, að skolpið úr rotkagganum fer í gusum niður í gjallið, svo það viðrast á milli gusanna. Þetta litla, einfalda áhald getur á hverjum sólarhring breytt þúsund pottum af daunillu, grugguðu skolpi í tært vatn og lyktarlaust. Og allur útbúnaðurinn kostar 6—700 krónur.

Hér á landi mundi þessi hreinsunaraðferð koma sér einkar vel við ýms stórhýsi, sem reist eru langt frá sjó, t. d. skólahús og sjúkrahús.

Fyrsta fullkomna rotþróin hér á landi verður líklega gerð við berklahælið á Vífilsstöðum.

Þeir sem vilja afla sér nánari vitneskju um Cameron's þrórnar geta snúið sér til Septic tank Co., Ltd., 1, Victoria St., Westminster S. W. London, eða þá líka til The Scandinavian Septic Tank Co. (System: Cameron, Commin & Martin), Frederiksholms Kanal 6. Köbenhavn K.

GUÐM. BJÖRNSSON.

---

# Ritdómar.

**RAGNAR LUNDBORG: ISLANDS STAATSRECHTLICHE STELLUNG von der Freistaatszeit bis in unsere Tage. Berlin 1908.**

Það hefir því miður dregist fyrir mér að geta um þessa bók, sem höf. sendi Skírni meðan eg var ritstjóri hans. Eg fekk hana of seint til þess hennar yrði getið í síðasta hefti árgangsins 1907. Efni bókarinnar hefir nú verið rakið svo rækilega í ýmsum íslenzkum blöðum, að ekki er þörf á að endurtaka það hér, né heldur ýmsar smáathugasemdir, er gera mætti, t. d. um þá skoðun höf. að Íslendingar hafi í fyrstu talið sig undir dómsvaldi Haralds hárfagra (bls. 5), er hann byggir á Landnámu, um skoðun höf. á ákvæðum Gamla sáttmála um utanstefningar (bls. 23 aths.), og um aldur hins síðara sáttmálans (bls. 22), því þessi hin síðastnefndu atriði hafa nú verið athuguð í »Ríkisréttindum Íslands« miklu rækilegar en kostur er á í stuttum ritdómi.

Þessar línur verða því aðallega til að þakka höf bókina og mega þar allir Íslendingar undir taka. Hún er rituð svo ljóst, aðalgögnum málsins er raðað svo vel og miklu efni komið fyrir í svo stuttu máli, að ánægja er að lesa.

Og það er ekki einskisvert fyrir oss einmitt nú að fá þetta rit á einni víðlesnustu tungu heimsins. Alkunnugt er að öðrum þjóðum er stjórnmálasaga vor að mestu allsendis ókunn.

Og svo er annað. Þar sem tveir deila, svo sem Íslendingar og Danir, má oft gera ráð fyrir því, að skoðunarhættir á báðar hliðar verði nokkuð einrænir, af því að báðir aðilar eiga hugsmuni í búfi, en þeir blinda stundum sýn. Í slíkri baráttu er því mikilsvert að vita, hvernig þeir líta á málið, sem að engu eru við það riðnir né eiga neitt undir því, hver málalokin verða. Þeir eru óvilhallir dómendur.

Það má því gleðja oss Íslendinga að herra Lundborg, sem hefir kynt sér málið svo rækilega, kemst að sömu niðurstöðu um ríkis-

rétt Íslands sem beztu menn vorir hafa haldið og halda enn fram, að Ísland se rétti samkvæmt fullveðja ríki í konungssambandi við Danmörku.

Mælikvarðinn, sem höf. notar í þessu efni, er hinn sami sem hinn frægi ríkisréttarfræðingur Jellinek heldur fram, að fullveðja sé hvert það ríki, sem að eins er samningum bundið. Með ljósum rökum, sem að vísu hafa oft verið sett fram áður, sýnir höf., að Gamli sáttmáli sé hinn eini bindandi samningur, sem Íslendingar hafi gert við erlent vald um samband sitt við það.

Og hvernig sem reynt er að þvæla um það, með hverjum hætti sá samningur sé til orðinn, þá virðist þetta ljóst, að hvað sem leið l ö g h l ý ð n i Íslendinga undir lok lýðveldisins, þá stóðu l ö g lýðveldisins óhögguð, unz önnur komu í staðinn á lögformlegan hátt, og þótt Hákon konungur hinn gamli hefði fengið mikinn hluta goðorðanna í hendur, þá var landsmönnum það lögfrjálst að neita honum um hollustu, og ekki virðist það hafa nein áhrif á gildi sáttmálans, hvort allir landsmenn gerðu hann í senn eða í mörgu lagi. Aðalatriðið er, að hann væri gerður á formlegan hátt af réttum aðilum, og því verður ekki neitað með sanni. Það er því engin furða þótt þessi sáttmáli hafi fyr og síðar verið formælendum danska valdsins þyrnir í augum, og árásirnar á hann hafa snúist að því tvennu, að hártoga hvert orð hans og finna þar annað en orðin hljóða um, og hins vegar að telja mönnum trú um að sá sem treður rétt annars minni máttar undir fótum, skapi með því nýjan rétt og afnái hinn forna.

Síðasta dæmi þessa virðast mér ritlingar danska lögfræðingsins í nefndaráliti millilandanefndarinnar, sem vonandi er að verði svarað að maklegleikum og með allri þeirri virðingu fyrir »vísindunum«, sem höf. heimtar og þetta stórmál á skilið.

Oft kveður við þann tón, að vér Íslendingar séum lögstirfingar og styðjum kröfur vorar meir við fornan lagastaf en við þjóðernisrétt vorn og aðstöðu alla. Enginn skyldi taka mark á slíkum ákúrum. Að vísu ætti þjóðernisréttur vor einn sér að vera næg ástæða til þess að vér fengjum viðurkendan þann ríkisrétt, er vér krefjumst, en hinu ber ekki að gleyma, að sú þjóð, sem ætíð hefir eftir föngum haldið fram rétti sínum og aldrei afsalað sér honum, hún hefir með því sýnt eitt hið fegursta aðalsmark þjóðernisins, og hins vegar er það kotungshugsunarháttur að biðja um það sem g j ö f, sem maður á að óskertum rétti sínum.

Hafi forfeður vorir aldrei afsalað sér ríkisrétti Íslands í hendur

erlends ríkis, þá er það skylda vor að láta ekki aðra setja þann blett á minningu þeirra. Það er hin minsta þökk, sem þjóðin getur goldið fyrir það að hún þarf nú ekki að sníkja sér rétt, heldur gengur að sínu. Jafnframt því sem vér styðjum kröfur vorar við þjóðernisrétt vorn, eigum vér því jafnt sem áður að sanna þann ríkisrétt, sem vér þykjumst eiga óskertan, og vér fögnum af alhug hverjum þeim liðsmanni, sem eins og herra Lundborg gengur með oss fram á vígvöllinn og berst í nafni sannleiks og réttar.

*G. F.*

* * *

**LESBÓK handa börnum og unglingum. I. GUÐM. FINNBOGASON JÓHANNES SIGFÚSSON ÞÓRHALLUR BJARNARSON gáfu út að tilhlutun landsstjórnarinnar. [Á kostnað »Unga Íslands« 1907].**

Þetta er fyrsta bindi íslenzkrar lesbókar, sem á að verða $^{2}/_{3}$ hlutum stærri, alls 30 arkir. Á henni er hin mesta þörf. Lesbækur hefir vantað svo tilfinnanlega við íslenzkukenslu í skólum og heimahúsum, að oft hafa verið notaðar bækur, sem til þeirra hluta eru með öllu óhæfar.

Efnið í þessu bindi er fjölbreytt. Fyrirsagnir alls 96. Langmest er af kvæðum, þjóðsögum, gátum, þulum og skáldsagnaköflum, og meginþorrinn er frumsaminn. Þýddir kaflar eru samt margir, 30—40. Sýnilega hefir ríkt vakað fyrir útgefendum að vekja hlýjan hug til dýranna.

Þessi byrjun virðist vera góð og af vandvirkni gerð. Alt er auðskilið börnum, og líklegt til þess að veita þeim skemtun jafnframt náminu. Og yfir bókinni er þjóðlegur blær. En annars auðveldara að átta sig á starfi útgefendanna við þetta bindi, þegar bókin er öll komin út, svo að yfirlit fæst yfir alt valið.

Bókin er seld í stinnri kápu og aftan á henni eru auglýsingar um blöð. Án þess að oss komi til hugar að amast við þeim blöðum, sem auglýst eru, virðist oss ekki viðkunnanlegar slíkar auglýsingar á skólabókum, sem gefnar eru út að tilhlutun landsstjórnarinnar. Og ekki minnumst vér þess að hafa séð slíkar auglýsingar fyr á neinum skólabókum, íslenzkum né útlenzkum.

* * *

**ÁRBÓK HINS ÍSLENZKA FORNLEIFAFÉLAGS 1905, 1906 og 1907.**

Rit þetta er að langmestu leyti verk hins óþreytandi elju og fræðimanns B r y n j ú l f s  J ó n s s o n a r. Aðalritgjörðirnar eru

féll í kjördæmi sínu, Manchester, er leita skyldi þar endurkjörs sakir hins nýja embættis, en vann frægan sigur í öðru kjördæmi, Dundee í Skotlandi. John Morley, Indlandsráðgjafi, var herraður og fluttist því upp í efri málsstofu, en hélt embættinu. Sá var maður mjög lýðvaldssinnaður á yngri árum og ómetnaðargjarn. Hann er hniginn að aldri og gekst fyrir næðinu í lávarðadeildinni.

Mörg nýmæli og merk hefir hið nýja ráðuneyti með höndum. Þeirra á meðal er eitt um ellistyrk handa öllum gamalmennum í landinu, þeim er eigi hafi þegið af sveit. Það mál hefir verið lengi á dofinni, en stjórn og þing hikað sér alt til þessa, með því að það yrði afarþung byrði á ríkissjóði. en nóg horn önnur í að líta, þar á meðal hinn mikla herskipastólsauka, vegna þess, hve Þjóðverjar færa sig hóflaust upp á skaftið með sinn flota. Ellistyrkurinn er ætlaður öllum sjötugum gamalmennum, körlum og konum, þeim er eigi hefði minst 10 sh. (9 kr.) við að lifa um vikuna, 5 sh. (4½ kr.) á viku úr ríkissjóði, hjónum 7½ sh. Asquith bar sjálfur upp frumvarpið. Hann ætlaði á, að 500,000 eða hálf miljón mundi njóta styrks og að hann mundi þá nema um 6 milj. pd. um árið eða nálægt 110 milj. kr. Það er mikið, en þó ekki meira en sem svarar væntanlegum tekjuafgangi eftir þ. á. fjárhagsáætlun. Þar er gert ráð fyrir 158 milj. punda tekjum og 152 milj. pd. útgjöldum. Það er sama sem 2844 og 2736 milj. kr. Hátt upp í 3000 miljónir (3,000,000,000 milj.) á ári hvort um sig.

Gripasýning mikil og glæsileg hófst í Lundúnum á krossmessu í vor og stendur fram eftir sumri. Þeir hafa lagt saman í hana, Frakkar og Bretar, en aðrar þjóðir ekki. Það á að vera til þess gert að tryggja og festa vináttumálin með þeim nágrönnum. Sýningarsvæðið geysivítt, alsett dýrlegum höllum, er hver hefir að geyma sína tegund sýnismuna, stórra og smárra. Hundrað-halla-sviðið kalla sumir það. Þar kom Falliéres Frakklandsforseti, og hlaut hinar dýrlegustu fagnaðarviðtökur af Játvarði konungi og höfðingjalýð landsins.

Skömmu síðar, eða um fardagaleytið, áttu þeir málfund með sér, Játvarður konungur og Nikulás Rússakeisari. Þeir höfðu hann í Rigaflóa, fram undan Reval. Það þykir ekki hættulaust á landi fyrir flugumönnum. Skemtiskipin, sem þeir voru á, þessir hinir einna voldugustu þjóðhöfðingjar í heimi, voru látnir leggjast ekki nær landi en sem svarar fullri viku sjávar. Ekki er það látið berast út, hvað þeir ræddust við. Enda engum blöðum um það að fletta, að allar hníga slíkar viðræður þjóðhöfðingja nú á tímum að

eyða öllu sundurlyndi og öllum ófriðarvísi um álfu vora og þá raunar um heim allan. Játvarður konungur þykir vera mesti afreksmaður um þá hluti allra þjóðhöfðingja um vora daga. Þjóðverjum þykir meira en nóg um það. Þeim er farið verða ekki um sel, með því að þeir líta svo á, að til þess séu refarnir skornir hvað helzt, að einangra þá og láta þá mega hreyfa hvergi legg né lið, sem væri þeir vargar í véum og höfuð-ófriðarseggir heims. En þeir segjast ekki eiga það ámæli skilið, heldur fullyrða þeir, að eigi sé þ e i m miður ant um allsherjarfrið en Bretum og þeirra bandamönnum. Það mun og satt vera. Vígbúnaður þeirra sem hinna stórveldanna er til þess gerður, að vera hvergi varbúnir, ef það voða-ólán bæri að höndum, að höfuðríkjum heims lenti saman í hernaði, en eigi hins, að friðurinn sé þeim ekki kærstur öllum saman, með því að aldrei hefir ófriður ægilegri verið en um vora daga, er vígbúnaður er stórum fullkomnari orðinn en gerst hefir frá því er heimur bygðist og sjálfsagðar hörmungar af vopnaburði stórvelda þeirra í milli stórfenglegri en orðum verði að komið eða nokkur maður fái gert sér í hugarlund.

Það var áður löngu nokkuð, eða rétt um sumarmálin, er sáttmáli komst á með ríkjum þeim, er lönd eiga að Eystrasalti og að Englandshafi, um, að þar skyldi engu mega hagga um ítök og hlunnindi af sjó hvers þeirra ríkja um sig né frjálsar ferðir um þau höf, hvað sem að höndum bæri. Alt átti það og að vera gert til friðar og griða um aldur og æfi.

Enn allmiklar óeirðir á Indlandi, einkum í útnorðurálfum landsins, nær landamærum Afghanistans, og hefir Bretum lent þar í skærum við Afghana.

---

A f Þ j ó ð v e r j u m er það helzt að frétta, að þar hafðist fram á þingi í vor fundafrelsisnýmæli stjórnarinnar, með litlum atkvæðamun, með þeim ófrelsisfyrirmælum, að hvergi megi um alt ríkið mæla nema á þýzka tungu á almennum mannfundum; þó mega yfirvöld þiggja menn undan því, ef brýna nauðsyn ber til. Annarlegir þjóðflokkar búast þó við, að sú linkind komi þeim að litlu haldi.

Maximilian Harden hefir fengið rétting síns máls í hæstarétti, og bondin borist það fast að einum andstæðing hans, Eulenburg fursta, að honum var snarað í gæzluvarðhald fyrir meinsærisgrun í saurlífisaðdróttunarmáli því, er þeir áttu í snemma vetrar, Moltke greifi og M.-H.

Enn eru töluverðar skærur með Þjóðverjum í Afríku útsunnanverðri og nágrönnum þeirra þar, Hottentottum. Þjóðverjar borið efra skjöld nýlega.

---

Frá Danmörku. Þar sleit loks þingi 23. f. mán. við lítinn orðstír, þótti framfaramönnum, en stjórnarliðar stórum hróðugir yfir mikils hattar nýmælum, er þeir höfðu loks fram a þingi, eftir langt þóf og leikseigt. Þeirra stærst eru ný réttarfarslög, í meira en 1000 greinum, fyrirheitin í grundvallarlögum Dana 1849, en vanefndir á því alt til þessa. Frjálslyndari þingflokknum finst þau vera kák, með því að stjórnin gerði það til miðlunar við landsþingið, að hverfa frá ýmsum fyrirhuguðum fyrirmælum, er höfðingjarnir risu öndverðir í móti, svo sem er fullur aðskilnaður dómsvalds og umboðsstjórnar, kviðdómaskipun án manngreinarálits eða stéttamunar m. fl. Tolla-lög fengust og endurskoðuð á þessu þingi, eftir langa mæðu, en brengluð öll og aflöguð í meðferð frá því sem til var ætlast. Loks sveitarstjórnarlög ný, sem líkt má um segja. Með hróplegu flokksofstæki tókst að bægja frá Alberti öllum háska af rannsókn gerða hans í þingnefnd; með því varð 1 atkv. fram yfir helming í fólksþinginu.

Danir mistu 24. apríl mikinn ágætismann, þar sem var Poul la Cour prófessor í Askov, 67 ára. Og 13. maí lézt Joseph Michaelsen póstmeistari, 82 ára, sá er var upphafsmaður allsherjarpóstsambandsins heimsvíða með sama burðareyri um öll lönd. Þá dó 6. apríl fjármálaráðgjafi þeirra Vilh. Lassen, atkvæðamaður og gáfumaður mikill, rúml. hálffimtugur.

---

Miklar skærur með Persakonungi og löggjafarþingi hans. Hann lét skjóta á þinghúsið nýlega. Stundum fer hann huldu höfði.

Veginn var 28. apríl landshöfðingi Austurríkiskeisara í Galizíu, Potocki greifi.

Borgarbruni varð mikill í Ameríku 13. apríl, brann 4. hluti útborgar þeirrar við Boston, er nefnist Chelsea.

---

# Vistaskifti.

Nokkurir smáþættir eftir

EINAR HJÖRLEIFSSON.

---

I.

Eg var á Skarði síðari helminginn af fyrsta áratug æfinnar.

Að þeim áratug hálfnuðum, hafði faðir minn farið í sjóinn. Og með honum höfðu farið í sjóinn öll úrræðin, önnur en sveitin.

Nú hafði eg verið á Skarði fjögur ár, og þrem til fjórum mánuðum betur.

Eg var úti á hlaði og var að berja fisk. Eg óskaði þess, að guð vildi einhvern veginn sjá um það, að sleggjan yrði helmingi léttari, og að fiskasteinninn yrði helmingi lægri. . . . Og helzt, að hann gæti gert veröldina einhvern veginn alt öðru vísi. . . .

Það var lostætur, yndislegur freðfiskur, sem eg var að berja. Eg horfði með fagnaðar-skelfingu á hvern molann, sem úr honum muldist undan höggunum. Vissi ekki, nema eg kynni sjálfur að fá högg fyrir hvern molann.

— En upp í mig s k u l u þeir samt, sagði eg við sjálfan mig.

Eg leit til bæjardyranna, hvort enginn væri að koma út.

Og upp í mig fóru molarnir.

Mér varð litið ofan á grundirnar fyrir framan og neðan bæinn. Þar var maður á reið. Eg sá, að það var hann Jón, að koma. Eg þekti þann bleikskjótta — hvern-

ig hann reis upp í fangið og valhoppaði og tók svo sprettinn, eins og fugl flygi.

Mér lá við að kenna í brjósti um Jón. Nú átti hann bráðum að fara af baki Bleikskjóna. . . . Og koma heim . . . til hennar Þorgerðar! . . .

Aldrei skyldi eg koma heim til hennar Þorgerðar, ef eg væri fullorðinn og húsbóndi og maðurinn hennar. Aldrei á æfi minni. Eg skyldi alt af vera í ferðalögum á þeim bleikskjótta. Eg skyldi aldrei láta hana vita, hvar eg væri, svo að hún gæti aldrei náð til mín.

Mér óx þróttur inni í þessum skýjaborgum. Eg barði fiskinn röskiegar en áður. Samt fann eg til verkjanna í handleggjunum og bakinu innan um draumana.

Aftar varð mér litið fram eftir og ofan fyrir túnið. Jón vaggaðist nokkuð til á hestinum. Og stundarkorn hallaðist hann út á vinstri hliðina, stundarkorn út á hægri. Og Bleikskjóni hallaðist til líka. Það gerði hann æfinlega, þegar svona var ástatt um eigandann.

Þá fór heldur að hýrna yfir mér.

Eg vissi, hvernig á þessu ruggi stóð og þessum hallanda á þeim Jóni og Bleikskjóna.

Þegar Jón var drukkinn, var hann æfinlega góður við mig, en vondur við Þorgerði. Ódrukkinn var hann aldrei góður við neinn. Og ekkert vondur heldur.

Jón tók harðan hlaðsprett. Gufumökkurinn stóð fram úr nösunum á Bleikskjóna. Og svitinn var eins og kápa utan á honum.

Jón fór af baki. Eg sá, að hann var dálítið valtur á fótunum. Samt kunni hann auðsjáanlega vel við sig og veröldina. Mér fanst eins og eyrun á honum vera brosandi — hvað þá munnurinn og augun.

Hann stóð kyr, hætti að brosa, lagði undir flatt, hvesti augun á fiskinn, sem eg var að berja, og hafði langt á milli fótanna á sér, eins og sjómenn í öldugangi.

Eg herti mig að berja.

— Geturðu sprett af honum Bleikskjóna, greyið mitt?

Eg lét sleggjuna falla á steininn, en horfði á fiskinn vandræðalega. Þorgerður hafði bannað mér að fara frá steininum, fyr en eg hefði lokið barningunni. Eg vissi ekki, hvoru þeirra eg ætti að hlýða.

— Kærðu þig ekkert um bölvaðan fiskinn.

— Ertu að bölva matnum, Jón?

Þorgerður var þá komin að baki honum, að báðum okkur óvörum.

Við hrukkum við.

— Ekki er furða, þó að óblessun sé í búinu þínu, þegar þú ert að bölva guðs gjöfum! Það er sama sem að bölva guði!

Hún var álíka sveitt eins og Bleikskjóni. Eg fann guðhræðslu-vandlætinguna boga af henni með svitanum. Hún var æfinlega sveitt. Og æfinlega guðhrædd. Á þeim árum hugsaði eg mér guðhræðsluna æfinlega með svitalykt.

Jón rétti úr sér eftir viðbragðið. Hann stóð enn gleiðara en áður, hvesti augun á Þorgerði og sagði hryssingslega:

— Er guð þá harðfiskur?

Þorgerður var um stund orðlaus.

Hún þurkaði svitann framan úr sér með svuntunni sinni, meðan hún var að hugsa sig um.

Jón horfði á hana siguraugum.

— Já, halt þú bara áfram að guðlasta, sagði hún þá . . . það mun verða affarabezt!

— Sprettu af honum Bleikskjóna, Steini minn, sagði Jón blíðlega.

— Hann á að berja fiskinn.

Þorgerður var einbeitt í rómnum.

— Hann verður drepinn, sagði Jón.

— Drepinn? sagði Þorgerður. . . . Hver? . . . Fiskurinn?

Þá spurningu virti Jón ekki svars. Hann fór sjálfur að spretta af hestinum, og fleygði hnakknum geðvonzkulega á stéttina fyrir framan bæjarþilin. Þorgerður

horfði á hann; athugaði vandlega ruggið, sem á honum var; en sýnilega ekki með sem mestri góðgirni.

Þá gekk Jón að fiskasteininum og horfði á mig stundarkorn.

— Þú verður drepinn, greyið, sagði hann því næst. . . . Mjög bráðlega drepinn.

Mér þótti það ekki sem vænlegasta horfur, og fór að skæla. En eg hélt áfram að berja fiskinn.

— Ætli hann verði ekki drepinn þó!? sagði Þorgerður. . . . Hver ætli vinni á honum?

— Þú, sagði Jón.

Hann hnykti á orðinu og setti rykk á sjálfan sig, svo að hann var nærri því dottinn.

Og færði sig nær Þorgerði.

— Fallegt er nú talið! . . . Viltu ekki reyna að standa? . . . Hvar hefirðu komið?

— Að Stað.

— Að Stað? Ekki hefirðu fengið brennivín þar . . . hjá prestinum.

— Brennivín? . . . þar? . . . þurfti þess ekki, kelli mín. Fekk það hjá sjálfum mér.

Hann tók pelaglas upp úr brjóstvasanum á treyjunni sinni, tók úr því tappann, hrækti og drakk gúlsopa sinn úr pelanum.

— Fekk a n n a ð hjá prestinum. . . . Nokkuð handa þér.

— Handa mér? . . .

Þorgerði fór sýnilega að þykja nokkurs um vert.

Jón færði sig aftur frá henni og að fiskasteininum. Hann fór aftur að horfa á mig, strauk dökkrauðan skeggkragann á kjálkabörðunum og gerði sig blíðan í málrómnum.

— Það vita fleiri en e g, að þú verður drepinn, greyið.

— Vertu ekki að þessum bölvuðum þvættingi, Jón.

Þorgerður stakk höndunum í síðurnar, og setti fram kviðinn og herðarnar aftur á bak. Málrómurinn varð þýðari og augnaráðið líka:

— Hvað fekstu þá handa mér?

# Ritdómar.

**JÓHANN SIGURJÓNSSON: BÓNDINN Á HRAUNI.** Leikrit í fjórum þáttum. 1908. 115 bls. (Sigurður Kristjánsson).

Íslendingar hafa tvöfalda ástæðu til þess að taka þessu leikriti vel. Það er gróði íslenzkum bókmentum. Og því hlotnast, fyrstu íslenzkra leikrita, sú sæmd að vera leikið í erlendum leikhúsum.

Leikurinn gerist í landskjálftum. Alt er á tjá og tundri. Húsin eru að hrynja. Enginn þorir að vera í bænum, nema bóndi og húsfreyja. Hún þorir það, af því að hún vill láta eitt yfir þau bæði ganga. Hann þorir það, af því að hann elskar ekki að eins jörðina sína, sem hann hefir sjálfur ræktað, heldur og bæinn sinn, sem hann hefir sjálfur reist. Þar hefir alt gerst, sem hann hugsar til með ljúfustu geði. Jafnvel myrkrið í bænum hefir honum fundist taka utan um sig með ástúð. Engin manneskja hefir nokkurn tíma tekið eins vel á móti honum, ekki einu sinni dóttir hans, þegar hún var barn — eins og myrkrið í bænum, þegar hann kom inn úr stórhríð, og menn höfðu talið hann af.

Að lokum hrapar bærinn; aftasti hluti baðstofunnar stendur einn eftir; þakið hangir ekki á öðru en einni stoð.

Á þetta uppnám alt er aukið því vandamáli bónda að ráða fram úr gjaforði einkadóttur sinnar. Hann vill gefa hana efnilegum bóndasyni. Dóttirin ann honum ekki; en hún lætur um stund undan fortölum móður sinnar. Móðir hennar hefir ekki unnað föður hennar, þegar hún var honum gefin; hún hefir unnað öðrum manni. En hún hefir talið skyldu sína að láta að vilja foreldra sinna. Og lífið hefir alt orðið ein skyldukvöð. Hún hyggur, að svo eigi lífinu að vera háttað. Og um stund fær hún hún dóttur sína á sitt mál.

En ekki nema um stund. Ástin nær valdi á henni. Hún og grasafræðingur, sem er í rannsóknarvöl þar í sveitinni, fella hugi

saman. Bóndi trúir þeim manni fráleitt fyrir dóttur sinni. Á hinu ber samt meira, að hann trúir honum ekki fyrir jörðinni. Kona hans gengur í lið með dóttur sinni, þegar á herðir. Bóndi sér, að hann fær ekki sínu máli framgengt. Hann hefir aldrei látið undan á æfinni. Og hann getur það ekki nú. Hann fer inn í rústirnar, kippir stoðinni undan baðstofuþakinu, verður undir því og týnir lífinu.

Þetta er í stuttu máli s a g a n í ritinu.

Ekki leynir það sér, að höf. er ungur og hefir enn ekki náð fullu valdi á efni sínu. Hann sýnir alt vinnufólkið á bænum. Þeir menn eru lítið einkendir. En þeir eru látnir segja sumt af því, sem allra skáldlegast er í ritinu, Hér fara á eftir fáein dæmi:

— Það var eins og eg væri að rista í lifandi skepnu — það var eins og eg væri að flá lifandi hold. — — Og risturnar frá því í fyrra voru eins og ljót ör, segir einn vinnumaðurinn um torfristu í landskjálfta.

— Og eins og jörðin skalf. — hún hafði ekka — gráturinn er erfiður gömlum, segir annar vinnumaðurinn.

— Við seinustu stóru landskjálftana kom sprunga, sem var margar mílur á lengd; eg sá hana sjálf; það lagði upp úr henni heita gufuna. Jörðin dró andann með opnum munninum. — — Vitið þið hvers vegna vetrarsnjórinn fyllir ekki gjóturnar? Hafið þið nokkurn tíma séð svo stórar snjóflyksur, að þær festist í munnunum; það er jörðin, sem blæs á móti snjónum; hún býr til gildrur fyrir mennina. Jörðin er mannæta, segir kerlingin á bænum.

Þetta er afburða-vel að orði kveðið. En af því að lesandi veit svo lítið um þessa menn, annað en að þeir geta talað svona, þá komast ummælin ekki í samband við neitt hugsanalíf, sem honum er kunnugt um. Þau verða líkust gimsteinum, sem vantar umgjörðina.

Aðalgalli ritsins er samt í mínum augum sá, að lesandi fær svo lítið að kynnast grasafræðingnum. Er nokkuð réttmætt í þeirri óbeit, sem bóndi hefir á honum? Eru tvær menningarstefnur þar að reka sig hvor á aðra? Eða gagnstæðar lífsskoðanir? Þeim spurningum er engu svarað. Lesandi er jafn-ókunnugur manninum, þegar leiknum er lokið, eins og þegar maðurinn er fyrst nefndur.

Og samræðurnar eru ekki hvarvetna sem eðlilegastar. Hugsanasambandið er sumstaðar furðu laust. Eg bendi t. d. á bls. 64.

Sveinungi (bóndinn) spyr Jórunni (konu sína), hvort hún geti ekki sofið. — Nei, eg get ekki sofið, segir Jórunn. — Þá segir

Sveinungi: Það var þá nótt, sem þú hélzt, að eg hefði orðið úti í stórhríðinni, o. s. frv., löng klausa um atvikin, þegar hann kom heim. Hér er alls ekki sjáanlegt sambandið við það, sem talað hefir verið um. Svona tala menn ekki. Og sams konar hugsanalos kemur fyrir hvað eftir annað.

En að hinu leytinu leynir það sér ekki, að íslenzk þjóð hefir eignast nýtt skáld, þar sem Jóhann Sigurjónsson er — afbragðsskáld vafalaust, þegar lífsreynslan hefir fengið meiri þroska, og listamaðurinn hefir átt kost á að temja sér betur glímuna við yrkisefni sitt. Hjónin eru sýnd með skýrum dráttum listarinnar. Ritið er fult af yndislega vel orðuðum ummælum. Og yfir alt er lagður einkennilegur og hugnæmur þunglyndis-blær, sem samboðinn er heimilinu þar sem skyldan hefir gengið í gleðinnar stað, og samboðinn þeim stundum, er verk mannanna eru að verða að rústum — þeim stundum, er vilji mannanna brotnar, af því að hann getur ekki bognað, sá viljinn, er engan tekur til greina annan en sjálfan sig — þeim stundum, er æskan fær ekki notið sín, nema ellin farist í rústunum. Slíkan blæ leggja góðskáldin ein á hugsanir sínar.

* * *

**BJÖRN BJARNASON dr. phil.: ÍÞRÓTTIR FORNMANNA á Norðurlöndum. Reykjavík 1908 [Sigurður Kristjánsson].**

Ritið er upphaflega samið á dönsku. Höf. hlaut doktorsnafnbót fyrir það. Hann er sennilega fróðastur allra núlifandi manna um þetta efni. Naumast getur hjá því farið, að þessi bók verði eftirlætisbók íslenzkra ungmenna, enda væri það og vel farið. Nú er stórum að lifna áhugi æskulýðsins hér á landi á íþróttum, og það svo, að gagngerð breyting hefir orðið á 2—3 árum. Vafalaust eflir þessi bók þann áhuga. Þekking á fornritum vorum og lífi forfeðra vorra hefir að undanförnu verið einna sterkasta hvatningaraflið til allrar manndáðar hér á landi. Svo mun verða hér eftir. Og bók dr. B. B. eykur þá þekking að miklum mun.

* * *

**ÞJÓÐTRÚ OG ÞJÓÐSAGNIR. Safnað hefir ODDUR BJÖRNSSON. JÓNAS JÓNASSON bjó undir prentun. I. bindi I.—II. hefti. Akureyri 1908 [Oddur Björnsson].**

Þetta er upphaf að miklu safni, sem Oddur Björnsson hefir í hyggju að koma út. Fyrsta bindið, sem þetta er partur af, virðist hann fullráðinn að prenta. Um síðari bindin fer eftir þeim viðtökum,

sem þetta bindi fær. Vér efumst ekki um, að þær verði góðar. Í safninu verður vafalaust mikill fróðleikur; og þá skemtun ekki síður.

Síra Jónas Jónasson hefir ritað formála, og gerir þar grein nýrrar efnisskiftingar á þjóðlegum fræðum, sem hann ætlar að fara eftir: 1. Manneðlissögur. 2. Náttúrusögur. 3. Viðburðasögur eða sögusagnir. 4. Venjur, þjóðsiðir og þjóðtrú. 5. Þjóðkvæði, ýmis konar.

Allar þær sögur, sem út eru komnar, eru Manneðlissögur. Þær skiftast í eftirfarandi kafla:

I. Draumar: berdreymi, draumspár, viðvarana- og bendingadraumar, samdreymi, draumgöngur.
II. Vokuvitranir: sjónir, heyrnir.
III. Dulargáfur: skygni, heyrn, forspar.
IV. Dularkraftar: ahrínsorð, kyngi og forneskja.
V. Aðrar mannverur: huldufólk, tröll, sæbúar.
VI. Áhrif frá öðru lífi: svipir, afturgöngur, sendingar.
VII. Frá trúarsvæðinu: dómar guðs, ásóknir hins vonda, himnaríki og helvíti.

Skírnir vill mæla hið bezta með þessum sögum. En hins virðist oss rett að láta getið, að vér fáum ekki séð, að mikill hluti þessa tvíheftis, sem út er komið, sé í raun og veru neinar þjóðsagnir, né komi þjóðtrúnni neitt verulega við. Ef mann dreymir draum, sem með einhverjum hætti reynist merkilegur, skrifar hann og sendir hann til prentunar, þá er frásögnin um hann engin þjóðsaga. Ekki heldur, þó að hann segi hann öðrum manni, og sá maður skrifi drauminn og láti prenta hann. Ekki getur það heldur talist með réttu nein þjóðsaga, þó að vakandi maður verði var einhverrar hvikskynjunar, sjái svip, sjái eða heyri það sem gerist í fjarlægð o. s. frv., og láti þess getið. Slíkar frásagnir geta verið mjög merkilegar. Þær eru rannsóknarefni sálarfræðinga nú á tímum. En þær eru ekki fremur þjóðsögur, en sérhvað annað, sem fyrir einstaka menn ber. Sæti þeirra á þjóðsagnabekknum er ekki annað en leifar þeirrar fáfræði-ímyndunar, að frásagnir um dularheims-skynjanir séu eingöngu hjátrúar-hjal fávísrar alþýðu.

Þær geta vitaskuld orðið efni í þjóðsögur. Þjóðsögur verða þær, þegar þær hafa gengið mann frá manni og skáldskapur þjóðarinnar hefir ummyndað þær. En ekki heldur fyr.

**ÞORSTEINN BJÖRNSSON: SKUGGAMYNDIR. Alþýðlegar frásagnir úr sögu páfadómsins. 1908. 200 bls.**

Marga skynsama menn mun furða á þessari bók; en einkum á því, að höf. hennar skuli vera guðfræðingur. Hún er svo einhliða, að sérþekkingarinnar verður lítið vart. Af þessari bók verður ekki annað séð, en að höf. líti svo á elztu og mannflestu deild kristninnar, sem ekkert sé af henni að segja um allar þær mörgu aldir, sem hún hefir staðið, annað en hneykslissögur, meira og minna skringilegar. Svo römm er hlutdrægnin, að jafnvel um Fransiscus af Assisi, einn af mestu guðsmönnum mannkynssögunnar, er ekkert annað sagt en það, sem ætlast er til að verði honum til smánar. Á öðrum eins fróðleik er ekki mikið að græða, og ritið hvorki sæmd íslenzkum bókmentum né íslenzkum guðfræðingum. Höf. ætlast til þess að rit hans fæli menn frá því að aðhyllast kaþólska trú. Vér erum honum sammála um það, að ekki sé það æskilegasta stefnan, sem hugir Íslendinga geta tekið. En vér hyggjum betra að vera einlæglega kaþólskur maður, en að svívirða kaþólska kirkju í algerðu skilningsleysi og óvirðulegri hneykslisfíkn.

Íslenzka höf. er ekki gallalaus, en að jafnaði lipur og fjörug. Óskandi, að hann beiti henni næst á betra efni.

* * *

**STURLUNGA SAGA. Búið hefir til prentunar BJÖRN BJARNASON dr. phil. Fyrsta bindi. Reykjavík 1908 [Sigurður Kristjánsson].**

Sigurður Kristjánsson gerir ekki endaslept við fornrit vor. Eftir að hafa komið út Fornaldarsögum Norðurlanda, Íslendingasögum, Íslendingaþáttum, Sæmundar Eddu og Snorra-Eddu, er hann nú kominn af stað með Sturlungu. Bindin eiga að vera fjögur. Í þessu bindi eru: Geirmundar þáttur heljarskinns, Þorgils saga og Hafliða, Ættartölur, Sturlusaga, Prestssaga Guðmundar góða, Guðmundar saga dýrá og Hrafns saga Sveinbjarnarsonar. Þess þarf naumast að geta, að útgáfa Sturlungu er hið mesta nauðsynjaverk, jafnókunnug sem þjóðin er þessu merkilega söguriti sínu.

*E. H.*

* * *

**SKOTLANDS RÍMUR, Icelandic Ballads on the Gowrie Conspiracy. Edited by W. A. CRAIGIE. Oxford. At the Clarendon Press, 1908. IV, 144, 8vo. Með rithandar sýnisherni.**

Þetta mun vera í fyrsta sinn, sem Englendingur hefir gefið út íslenzkar rímur, og byrjunin er góð, útgáfan sérlega vönduð að

öllum frágangi og sannkallað augnayndi. Útgefandinn sýnir sjálfur, að hann skilur það, sem hann er að fara með. Fyrir framan bókina er sýnishorn af einni blaðsíðu handrits þess, sem rímurnar eru skrifaðar eftir undir prentun, en það er handritið No. 146, 8to í Árnasafni í Kaupmannahöfn. Rímurnar eru ortar fyrir miðja 17. öld, því að höfundur rímnanna, síra Einar Guðmundsson, var á lífi síðast 1640, það menn vita til. Útgefandinn hefir ritað fróðlegan og skemtilegan formála (Introduction) fyrir framan (bls. 1—16). Því næst er ágrip af æfi höfundarins á íslenzku (bls. 17—25). Þar eftir koma rímurnar (bls. 27—103). Þær eru 6 að tölu, en þar fyrir aftan er fróðlegt orðasafn úr rímunum og ýmsar kenningar, með enskum skýringum, sem bera ljóst vitni um yfirburða fróðleik og nákvæma þekkingu á mörgum íslenzkum fræðum, sem þessum enska útgefanda er svo gagnkunnug að undravert er. Þar fyrir aftan (bls. 120—142) er sagan, sem rímurnar hljóða um, rituð á miðaldadönsku, eða frá þeim tíma, sem sagan gerist, sumarið 1600.

Vér Íslendingar megum vera þakklátir þeim útlendu ágætismönnum, sem á einhvern hátt stuðla að því, að leiða í ljós bókmentir okkar, og ekki sízt þann hluta þeirra, sem vér höfum sjálfir ekki mannrænu á að verja töpun og tjóni, svo sem rímur og kveðskap frá miðöldunum, en gleypum allan útlendan sora og saur, hversu óhollur sem er. Hinn heiðraði útgefandi, prófessor Dr. W. A. Craigie í Oxford, á sannarlega þakkir skilið fyrir þessa útgáfu sína af rímunum, því þær verða þó lesnar meðal enskumælandi vísindamanna, þótt Íslendingar hafi lært það af Jónasi Hallgrímssyni að fyrirlíta sína eigin fjársjóði, rímurnar.

*S. Gr. Borgfirðingur.*

* * *

**JÓN TRAUSTI: HEIÐARBÝLIÐ. Framhald sögunnar Höllu. Fyrsti þáttur. Barnið. Reykjavík [Arinbj. Sveinbjarnarson og Þorst. Gíslason] 1908.**

Eins og nafn skáldsögu þessarar ber með sér, er hún framhald sögunnar Höllu, er kom út fyrir rúmum tveimur árum. Hér greinir frá samvistum Höllu og Ólafs sauðamanns, sem hún hefir gifzt til þess að bjarga sæmd sinni og mannorði prestsins. Hún elur barn það, er síra Halldór var faðir að, á bæ einum í sókn síra Halldórs. En af kvíða fyrir og ótta við, að barnið muni líkjast föður sínum og koma þannig öllu upp, fær hún Ólaf mann sinn til þess að flytja sig búferlum í aðra sveit á eyðikot eitt upp til fjalla. Segir svo frá ferð þeirra til Heiðarhvamms og hinni

köldu og óvistlegu aðkomu þar. Halla hefir látið dragast að skíra barnið, til þess að þurfa ekki að láta síra Halldór skíra það, er enginn mun lá henni. Þegar þau eru sezt að í Heiðarhvammi sýkist barnið, en samt fer Halla með það til kirkju til að láta skíra það. Við það elnar barninu sóttin og deyr svo nokkru síðar. Halla verður í fyrstu úrvinda af harmi við missi barnsins síns, og það því fremur sem Ólafur maður hennar reynist henni hluttekningarlaust lítilmenni í raunum hennar, en með tímanum grær yfir sárasta harminn, Halla finnur aftur sjálfa sig og verður betri og göfugri kona, sem fastræður að láta gott af sér leiða og rétta þeim hjálparhönd, sem bera skarðan hlut frá borði í lífinu.

Innan í sögu-umgjörð þessa, sem stuttlega hefir verið drepið á, fléttar höf. lýsingar á íslenzku vordýrðinni á heiðum uppi og lýsingar og frásagnir af nágrönnum þeirra Höllu, bæði körlum og konum. Ber jafnvel svo mikið á þeim, að manni leikur efi á, hvort Heiðarbýlisnafnið á bókinni sé rétt valið og hvort höf. hefði ekki heldur átt að velja henni eitthvert annað heiti.

Ekki er því að synja, að víða koma fyrir skáldleg tilþrif í bók þessari og höf. ann landi sínu og þjóð og leikur hugur á að tala máli lítilmagnanna og olnbogabarnanna, sbr. lýsingu hans á Sölku niðursetning og Finni, ráðsmanni Settu í Bollagörðum. Í náttúrulýsingum hans bregður allvíða fyrir næmum skilningi á íslenzkri náttúru, meira að segja næmari og gleggri en vér eigum að venjast.

En á hinn bóginn eru ýmsir agnúar á bókinni, sem eru sumpart sprotnir af fljótvirkni höf., sumpart af því, að frásögn hans og lýsingar eru víða helzt til mærðarfullar og ekki ósjaldan nokkuð barnalegar. Skal síðar bent á nokkur dæmi því til sönnunar. Höf. hættir stundum við að láta lýsingar sínar og hugleiðingar bera orð og athafnir sögupersónanna ofurliði, og athugar ekki, að ágæti skáldsagna er oftsinnis ekki síður í því fólgið, sem skýrir lesendur gera sér í hugarlund af orðum og athöfnum sögumannanna, en því sem þar er sagt með berum orðum. Orðfæri höf. er allvíða ábótavant; en það virðist alloft stafa af skorti á vandvirkni og yfirlegu.

Skal nú að lokum gera stuttlega grein fyrir nokkrum aðfinslum þeim, sem hér eru taldar. Inngangur sögunnar virðist allsendis óþarfur, enda kemur hann ekkert við söguna. Og vart mun þeim, sem vita deili á högum lands og þjóðar, þegar »leiðir almennings lágu« eingöngu »um landið«, dyljast, að dómur höf. á

landinu, eins og það var þá, er særið einstrengingslegur, að vér ekki segjum hlutdrægur.

Lýsingin á Höllu á 18. bls. virðist engan veginn sjálfri sér samkvæm og óviðkunnanlegt er orðatiltækið: »En raunar hélt hún öllum jafn langt frá sér«. Hugleiðingar höf. á 23.—24. bls. hefðu vel mátt missa sig, og óþarfi var að geta þess, að »augnalokin á Ólafi voru þau s ö m u, en svefnsvipurinn minni«. Sama er að segja um speki höf. á 29. bls.: »Það getur tekist að glepja mönnum sýn, en það getur líka mistekist«.

Á sömu blaðsíðu er »sagði ljósmóðirin s k i p a n d i«, meinleg dönskusletta. Sama er að segja um: »Hvíslið dó n i ð u r«, á 32. bls. Á 44. bls. virðast lýsingarorðin í málsgreininni: »Svipurinn hinn sami, harðlegi, en þó góðmannlegi«, ekki koma vel heim hvort við annað.

Hugleiðingin á 46. bls. »Hýrt og hraust barnsandlit« o s. frv. er óþörf. En ef endilega hefði þurft að koma þeirri hugleiðing að, færi betur á að lesandinn læsi hana milli línanna, ef svo má að orði komast, af tilburðum gömlu prestsekkjunnar.

Á 49. bls er gömlu prestsekkjunni lýst svo, að hún hafi verið »höfðingleg og einarðleg þ r á t t f y r i r ellina. En höfðingleg ásýnd er oft og tíðum einkenni ellinnar.

Ekki er ólíklegt, að mönnum, sem eru vanir vötnum, stökkvi bros, er þeir lesa frásögn höf. um förina yfir Heiðarkvísl og sundþrot rakkans.

Höf. farast á 74. bls. svo orð: »Þessi gæluyrði voru henni þó a ð e i n s á v ö r u n u m. Angurblíðar móðurtilfinningar gagntóku hana svo að hún viknaði«. Mundi ekki eins eðlilegt að ætla, að gæluyrðin væri sprottin af angurblíðum móðurtilfinningum, og því ekki »að eins á vörunum«?

Lýsingin á trúarhræsninni á 123.—124. bls. er víst allmiklum öfgum blandin.

Á 136. bls. er greinin: »Halla gaf sér ekkert tóm til þess að líta yfir í huganum, hversu mikið hún væri búin að leggja á sig sakir veikinda barnsins«, óþörf og smekklaus. Móður, sem ann barni sínu eins heitt og Halla, kemur slíkt sízt til hugar.

Bréfið prestsekkjunnar gömlu hefði vel mátt missa sig. Það er ónærgætið mjög og kemur heldur ekki vel heim við skaplyndi gömlu konunnar að því er virðist. Vegur Höllu hefði og orðið enn meiri, ef hún hefði fundið sjálfa sig án bréfa þessara.

Vitaskuld er sumt af þessu, sem hér er til tínt, smámunir, en miklu fleira er þó slept, sem fetta mætti fingur út í. Það er innileg ósk mín, að höf. temji sér meiri vandvirkni og hafi það hugfast, að án þess kemst skáldið aldrei upp í öndvegissessinn, hversu góðum gáfum sem hann kann að vera gæddur.

*Þorleifur H. Bjarnason.*

---

Skírni hafa enn fremur verið sendar þessar bækur og verður sumra þeirra getið síðar nákvæmara:

*Lewis Wallace:* Ben Húr. Saga frá dögum Krists. Þýtt hefir á íslenzku Bjarni Símonarson prófastur. Rvík (Guðm. Gamalíelsson) 1908

*Jónas Jónasson:* Reikningsbók. Fyrri hluti. Akureyri (Oddur Björnsson) 1906.

*Smásögur* handa börnum og unglingum. Akureyri (O. B.) 1907.

*Jónas Jónasson:* Stafrófskver 2. útg. endurbætt. Með 50 myndum. Akureyri (O. B.) 1907.

*Fedor v. Zobelitz:* Hringar Serkjakonungs. Saga frá 18. öld. Akureyri (O. B.) 1907.

*Laufey Vilhjálmsdóttir:* Nýja stafrófskverið. Síðari hluti. Myndir eftir Ásgrím Jónsson o. fl. Rvík 1908.

*Tímarit fyrir kaupfélög* og samvinnufélög. Ritstj.: Sig. Jónsson. II. ár. Akureyri. (Útgef.: Samvinnukaupfélag Íslands) 1908.

*Finnur Jónsson:* Málfræði íslenzkrar tungu og helztu atriði sögu hennar í ágripi. Khöfn (Sigurður Kristjánsson) 1908.

*Þorvaldur Thoroddsen:* 1808—1908. Æfisaga Péturs Péturssonar dr. theol. biskups yfir Íslandi. Rvík (kostnaðarmenn: Þorvaldur Thoroddsen og Sigurður Kristjánsson) 1908.

*Theódór Friðriksson:* Utan frá sjó. Smásögur. Akureyri (O. B.) 1908).

*Bjarni Sæmundsson:* Fiskirannsóknir 1907. Skýrsla til stjórnarráðsins. Sérprentun úr Andvara.

*María Jóhannsdóttir:* Systurnar frá Grænadal. Rvík (Sigurður Kristjánsson) 1908

Áramót hins evangelisk-lúterska kirkjufélags Íslendinga í Vesturheimi. 1908. Fjórða ár. Ritstjóri: *Björn B. Jónsson.* Winnipeg.

*Islandica.* An Annual relating to Iceland and the Fiske Icelandic Collection in Cornell University Library. Edited by George William Harris Librarian. Volume I. Bibliography of the Icelandic Sagas and Minor Tales. By Halldór Hermannsson. Ithaca, New York (Issued by Cornell University Library) 1908.

Foreningen til norske Fortidsmindesmærkers Bevaring, *Aarsberetning* 62 og 63. Aargang 1906—1907. Kristjania 1907—1908.

*Orkney and Shetland Old-lore.* Series of The Viking Club 1—7. London 1907—1908.

*Bjarni Sæmundsson:* Zoologiske Meddelelser fra Island. Sérpr. úr Vidensk. Meddel. fra den naturh. Foren. i Kbhvn 1907.

*Dr. Helgi Péturss.:* Einige Hauptzüge der Geologie und Morphologie Islands. Sérprentun úr Zeitschrift der Gesellschaft für Erdkunde zu Berlin 1908.

---

# Dómur Galileis.

---

Árið 1633, 22. dag júnímánaðar, var kveðinn upp einn af illræmdustu dómum mannkynssögunnar.

Sökudólgurinn var Galileo Galilei, mestur náttúrufræðingur Ítalíu og einn þeirra manna, sem lagt hafa undirstöðuna að náttúruvísindum nútímans. Dómararnir voru rannsóknarréttur kaþólsku kirkjunnar í Rómaborg. Sakarefnið var bók, Samtöl, sem hann hafði ritað um alheimskerfið. Hann hélt því fram, að því væri svo háttað, sem hinn siðaði heimur hefir nú kannast við um langt skeið. Bókin er enn talin eitt af mestu snildarritum vísindanna.

Bókin var lögð fyrir páfa árið 1630. Hann virðist ekki hafa fundið neina hættu stafa af henni, og 1632 fekst leyfi til að prenta hana. En þegar hún var komin út, komst alt í svo mikið uppnám, að fullyrt er, að annað eins hafi aldrei komið fyrir út af neinu vísindariti. Vinir höfundarins tóku bókinni með miklum fögnuði. En mótstöðumenn hans reyndu að sannfæra páfa um það, að hér væri um mikla hættu að tefla fyrir kirkjuna, og að auk þess væri páfi sjálfur óvirtur í bókinni. Hann setti þá kardínálanefnd til þess að yfirfara bókina af nýju. Og kardínálarnir vísuðu málinu til rannsóknarréttarins.

Galilei átti heima í Flórens, en var stefnt til Rómaborgar, til þess að mæta þar fyrir rannsóknarréttinum. Hann var þá 69 ára og farinn að heilsu. Rannsókninni lyktaði með þeim hætti, að farið var með hann inn í píningarsalinn og honum sýnd píslarfærin. Þá virðist hann hafa látið bugast að fullu.

Ágrip það af dómnum, sem hér fer á eftir, er eftir enskri þýðing. Hún var gerð eftir ljósmynd af dómnum, er tekin hefir verið í páfahöllinni.

Dómurinn byrjar á því, að Galilei sé kærður fyrir, „að þú hefir haldið því fram, að rétt sé sú villukenning, sem margir breiða út, að sólin sé hreyfingarlaus í miðju veraldar og jörðin hreyfist daglega; að þú kennir lærisveinum þínum þetta; að þú hefir haft bréfaskifti um þetta efni við stærðfræðinga Þýzkalands; að þú hefir gefið út bréf um sólblettina, og haldið því fram þar, að þessi kenning sé rétt; að þú hefir svarað þeim mótbárum, sem fram hafa komið gegn þér, með þeim hætti að skýra heilaga ritningu eftir þínum eigin hugmyndum. . . .

„Rétturinn hefir viljað afstýra þeim óþægindum og hættum, sem af þessu stafa, og fara vaxandi, trúarbrögðunum til tjóns.

„Eftir skipun páfans og kardínálanna hafa guðfræðingar þeir, sem mál þetta er falið, orðað tvö kenningar-atriði þín á þessa leið:

„Hið fyrra er þetta: Sólin er miðja veraldar og hreyfist ekki. Sú kenning er fráleit, vísindalega röng, og villitrúar-kenning, af því að hún er gagnstæð heilögum ritningum.

„Síðara atriðið er þetta: Jörðin er ekki miðja veraldar, og er ekki óhreyfanleg, heldur hreyfist hún dag-

lega. Sú kenning er jafn-fráleit og vísindalega röng, og frá sjónarmiði guðfræðinnar villitrúar-kenning. . .

„Vér lýsum yfir því, að þú hefir komið á sjálfan þig sterkum grun um villutrú,

„af því að þú hefir trúað og haldið fram kenningu, sem er röng og gagnstæð heilagri og guðdómlegri ritningu, þeirri kenning, að sólin sé miðja alheimsins og hreyfist ekki frá austri til vesturs, en að jörðin hreyfist og sé ekki miðja veraldar, og

„af því að þú hefir gert þér í hugarlund, að þú gætir haldið fram, sem líklegri, skoðun, sem lýst hefir verið gagnstæð heilögum ritningum.

„Fyrir því lýsum vér yfir því, að þú hefir unnið til allra þeirra aðfinsla og refsinga, sem ákveðnar eru af heilögum kirkjurétti og öðrum almennum og sérstökum lagafyrirmælum gegn þeim mönnum, sem óhlýðnast lögunum og öðrum auglýstum fyrirmælum.

„Frá slíkum refsingum þóknast oss að leysa þig, með því skilyrði í fyrsta lagi, að þú, af einlægu hjarta og sannri trú, samkvæmt formála, er vér munum leggja fyrir þig, afneitir með eiði frammi fyrir oss, formælir og lýsir andstygð þinni á téðum villukenningum, og allri annari villu gagnstæðri kaþólskri, postullegri og rómverskri kirkju. Og til þess að hin mikilvæga og skaðvæna villa þín og óhlýðni verði ekki látin óhegnd, og til þess að þú verðir eftirleiðis gætnari, og til þess að þú verðir öðrum til fyrirmyndar og þeir megi sneiða hjá syndum þínum — lýsum vér yfir því, í almennri tilskipun, að bókin „Samtöl“ eftir Galilei er bönnuð

„Vér dæmum þig til almenns fangelsis hins heilaga rannsóknarréttar, svo langan tíma, sem oss kann að þóknast. Til gagnlegrar yfirbótar skipum vér þér að lesa hátt eina sinni á viku um þrjú ár sjö iðrunarsálma.

„Vér áskiljum oss vald til þess að takmarka allar téðar refsingar og yfirbætur eða nokkuð af þeim, og til þess að breyta þeim eða gefa þær upp.“

Páfinn breytti dómnum á þá leið, að Galilei var leyft að dveljast á tilteknum stað utan fangelsisins. Hann hélt áfram vísinda-athugunum sínum, þar til er hann var orðinn blindur. En erlendis varð hann að gefa út rit sín. Eftir dóminn mátti ekkert prenta eftir hann. Og jafnvel eftir andlát hans, hélt kirkjan áfram að ofsækja hann. Hann hafði valið sér leg á tilteknum stað. En bannað var að fara eftir þeirri ósk hans, þangað til nærri því 100 árum eftir andlát hans.

Ekki er það að sínu leyti síður merkilegt en dómur Galileis, hve langvint bannið gegn bók hans varð í kaþólskri kirkju. Það entist rúm 200 ár, var ekki numið úr gildi fyr en 1835. Tveir páfar höfðu samt úrskurðað, að það skyldi úr gildi falla, Benedikt 14. 1754 og Píus 7. 1822. En svona varð mótspyrnan endingargóð hjá hinum kaþólsku klerkahöfðingjum.

Og ekki sæti það vel á mótmælendum að núa kaþólskum mönnum þessari ljósfælni mjög um nasir. Siðbótarforingjarnir og mikils metnir guðfræðingar eftir þeirra daga fóru háðungarorðum um hugmyndir Koperniks um alheimskerfið. Og á 19. öld hafa merkir kennimenn á Þýzkalandi og í Danmörk haldið fram stjörnufræði ritningarinnar gegn niðurstöðu vísindanna.

# Erlend tiðindi.

---

Höfuðtíðindin síðustu mánuði ársins, önnur en landskjálftarnir á Ítalíu, hafa gerst suður á Balkansskaga og koma mjög við hinn sjúka mann, er svo hefir verið nefndur langa hríð, en það er Tyrkjaveldi, — frá því geigur sá hinn mikli, er öðrum Norðurálfuþjóðum stóð af Tyrkjum, snerist í meðaumkun yfir bágbornum högum þeirra, er úr varð greinileg uppdráttarsýki, sem bakaði stórveldunum miklar áhyggjur og varð að vandræðamáli þeirra í milli og nefnt löngum austræna málið. Þær áhyggjur voru þó satt að segja ekki ekki sprotnar af brjóstgæðum við sjúklinginn, heldur miklum kvíða um voða-skálmöld og skeggöld, um allsherjar-ófriðarbál, er að því kæmi að skifta reitum hans, miklum löndum og fögrum og frjósömum, en illa hirtum alla þá hríð, 4—5 aldir, er hann hafði haft þau undir höndum. Þeim þótti undarlegt, eins og Agli forðum, ef allir skiftu vel silfrinu, er því yrði sáð að því allsherjar-lögbergi.

Því er það, að vestrænu stórveldin hafa skorist í leik hvað eftir annað, er úlfurinn í Austurvegi, Rússinn, hefir gerst fjölþreifinn um hjörð Tyrkja. Þau gengu á hólm með þeim fyrir rúmlega hálfri öld (Krímstríðið 1853—1856) og nær fjórðung aldar eftir það hrifsuðu þeir úr höndum Rússa töluvert af herfangi þeirra eftir mannskæðan hernað á hendur Tyrkjum og afarkostnaðarsaman (1878). Það gerðu þau með ófriðarhótunum við sigurvegarana vígmóða og allsherjarráðstefnu í Berlín s. á.

Öll létust stórveldin vera að hjálpa kristnum þjóðum í ríki Tyrkjasoldáns, hvert sinn er þau hlutuðust til um hans mál. En því olli rígurinn þeirra í milli, að jafnan skiftust þau í sveitir og urðu sum með honum, en önnur í móti. Þar varð Rússakeisari hinum kristnu þjóðum drengur beztur, er í harðbakka sló, þótt minst þyki vera um siðmenning með Rússum. En eigi þótti þar heilt undir búa með öllu, heldur ágirnd fjár og landa um leið.

Fyrir 30 árum bárust miklar sögur af harðýðgi Tyrkja við eina hinna kristnu þjóða í ríki þeirra, Búlgara, með ofboðslegum hryðjuverkum. Þá reis upp mannvinurinn W. E. Gladstone, hinn mikli stjórnskörungur Breta, og eggjaði landa sína lögeggjan að hefjast handa og duga kristnum bræðrum sínum austur þar. En þeir daufheyrðust við og lögðu um hríð fæð á Gladstone fyrir þá talsmensku hans. Hann var valdalaus í þann mund. En þá skárust Rússar í leik og börðust þeim til lausnar. Þá gerðist Búlgaría hálf-fullvalda ríki, skattgilt undir Tyrkjasoldán. Það var árið 1878. En sjö árum eftir, 1885, jókst Búlgaríuríki það um þriðjung, með þeim hætti, að annað skattland soldáns, Rúmilía hin eystri, gerði uppreist og sagði sig í lög við Búlgara. En soldán fekk engu við ráðið. Hann gerði sig sáttan á það síðar, að þjóðhöfðingi Búlgara væri jafnframt landstjóri í Rúmilíu hinni eystri. Búlgaría sjálf liggur norðan Balkanfjalla, milli þeirra og Dunár að norðan. Þjóðin, Búlgarar, er náskyld Finnum, settist þar að löndum fyrir 14 öldum, og tók kristna trú á 9. öld.

Fyrstu árin eftir lausnina undan Tyrkjum var sá maður höfðingi (fursti) yfir Búlgaríu, er Alexander hét frá Battenberg, vaskur maður og vel að sér. Hann óvingaðist við Rússa; þeir vildu hafa hönd í bagga um stjórn landsins, en það vildi hann ekki þýðast né landsmenn yfirleitt. Fyrir það fengu Rússar honum hrundið úr völdum (1886). Þá var tekinn til ríkis Ferdínand prinz af Koburg (1887) og hefir setið að völdum síðan. Hann kom sér brátt í vinfengi við Rússakeisara.

Það gerðist tíðinda í haust, 5. okt., að Ferdínand brá sér til hins forna höfuðstaðar Búlgara, er Tirnova heitir, frá þeim tímum, er Búlgaría var fullvalda ríki, á 11.--14. öld, tók sér þar konungsnafn með þeirri viðhöfn, er hlýða þótti, og lýsti ríkið óháð Tyrkjasoldáni. Viku síðar, 12. okt., hélt hann dýrlega innreið sína í hina nýju höfuðborg, Sofíu, og stefndi saman þingi, er staðfesti þær tiltekjur og veitti fé til vígbúnaðar, ef til þyrfti að taka, svo sem við var búist alment. Tyrkir létu og ófriðlega fyrst í stað, en hikuðu við, er til kom, með því að uppvíst varð skjótlega, að stórveldin sum að minsta kosti létu sér eigi illa líka atferli Ferdínands. Enda gerði í sama mund stjórn Austurríkiskeisara og Ungverjakonungs heyrinkunnugt, að hún hefði álimað til fulls og alls ríki sínu landskika þann á Balkanskaga útnorðanverðum, er nefnist Bosnía og Herzegowina, og Austurríkiskeisari hafði haft í sínum vörzlum frá því eftir stórveldafundinn í Berlín 1878, en var þó

sínum hluta Tyrkjasoldáni. Hann er á stærð við hálft Ísland og ríflega þó, með 2 miljónum íbúa.

Þau urðu ókvæða við, hin stórveldin, og var búist helzt við allsherjar-ófriði um hríð. Þau þóttust grátt leikin af félaga sínum þeim í Vín. Hitt varð úr, fyrir skorulega íhlutun þeirra stjórnvitringa álfunnar, er friðinn vilja varðveita til lengstra laga, að ófriði tekst að afstýra, og skyldi þá gengið á allsherjarráðstefnu til að jafna það mál alt, austræna málið gamla. Þegar frá leið, dró nokkuð úr því áformi aftur, og óráðið enn, hvort nokkuð verður úr þeim fundi eða ekki.

I sama mund sem Búlgarar lýstu sig óhaða Tyrkjasoldáni, hugðu Kríteyingar sér til hreyfings og sögðu sig í lög með Grikkjum, líkt og þeir hafa brugðið fyrir sig áður oftar en einu sinni. En engi dirfðist Grikkjakonungur að taka því, við mótmæli soldáns og ósamþykki stórveldanna. Þar situr því enn við sama og áður.

Hér er yfirlit, sem sýnir, hvað saxast hefir á limina hins sjúka manns á síðari tímum, frá því snemma nokkuð á öldinni sem leið; og merkja ártölin aftan við nöfn hinna nýju ríkja, hvenær þau urðu fullvalda.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Búlgaría (1908)........ ...... | 1800 | fermíl. | 4 | milj. |
| Grikkland (1830).... ...... .. ... | 1200 | — | 2 1/2 | — |
| Montenegro (1852) ......... | 150 | — | 1/4 | — |
| Rúmenía (1878) ... . ...... | 2400 | — | 7 | — |
| Serbía (1878) ... . .. ... . . | 900 | — | 2 3/4 | — |
| Bosnía-Herzegovína ... . .. | 1000 | — | 2 | — |
| Samtals... | 7450 | fermíl. | 18 1/2 | milj. |
| Tyrkland . ..... ..... ........... | 3000 | — | 6 1/2 | — |
| Alls. . | 10450 | fermíl. | 25 | milj. |

Ríki Tyrkja hér í álfu er því nú orðið ekki þriðjungur þess sem það var fyrir 80 árum, hvorki að víðlendi né fólksfjölda, nema síður sé.

En austur í Asíu á Tyrkjasoldán landeignir, sem nema 30,000 fermílum, og tala þegna hans þar 17—18 milj.

Tyrkjaveldi alt er því nú 33,000 fermílur og íbúarnir um 24 milj.

Hálffullvalda urðu framantalin lönd, er gengið hafa undan Tyrkjasoldáni, nokkuru fyr en þetta flest, sem fullveldisártölin votta: Serbía 1812, Grikkland 1827, Rúmenía 1856, Búlgaría

1878. Montenegro hefir raunar aldrei lotið Tyrhjasoldáni að fullu, þótt svo væri kallað fyrrum. Tvö stórveldi könnuðust við fullveldi þess 1853, en öll 1898, á Berlínarfundinum. Rúmenía varð konungsríki 1881 og Serbía 1882. Grikkland var þjóðveldi 1830—1833, en konungsríki síðan.

---

Eftir allmiklar sennur á þingi Dana í haust fyrstu vikuna út af Alberti-hneykslinu tókst að koma saman nýju ráðaneyti, er fyrir varð N. Neergaard fjármálaráðgjafi 2—3 mánuði undanfarna. Það var 12. október. Þeim manni frýr enginn vits, en grunaður er hann um kjarkleysi. Og þótti það lýsa sér óðara í því, að hann lét stjórnarflokkinn gamla, þann er stutt hafði Alberti til síðustu laga, þröngva sér til að halda í ráðuneytinu nokkrum sessunautum hans, er almenningsálit taldi að vísu eigi beint samseka honum, en þó það kámaða af samneyti við hann, að þeim hæfði eigi slík hefðarstaða áfram. Að tveimur hinna gömlu ráðgjafa, þeim J. C. Christensen yfirráðgjafa og Sigurði Berg, er stýrt hafði innanríkismálum, bárust svo fast böndin um, að þeim hefði alls eigi getað verið grunlaust um athæfi Alberti og það mörg missiri hin síðustu, að þeim var eigi vært í ráðuneytinu áfram, og þótti báðum súrt í brotið. J. C. Christensen hlaut þær sárabætur, að hann var kjörinn formaður stjórnarliðsins, umbótaflokksins, sem verið hafði hann áður en hann gerðist ráðgjafi, og ætla menn að því muni fylgja helzti mikil áhrif á þing og stjórn.

Eftirmaður hans í yfirráðgjafasessinum tók og að sér að fara með hervarnamál, og hafa menn fyrir satt, að snúinn muni hann vera á sömu sveif um meðferð hervarnanýmælisins mikla, er milliþinganefnd hafði unnið að 6—7 ár og bera skal upp á þingi í vetur; en þar með hefir hann brugðist gersamlega sinni fyrri stefnuskrá: að hafa sem minst um sig í hernaðarbúskapnum.

---

Það er kunnugt um Vilhjálm keisara hinn þýzka, að hann vill mikið láta á sér bera, og að honum hættir til að vera margmáll og örorður, frekara en vel þykir við eiga um slíkan þjóðhöfðingja eða vel henta góðri sambúð við önnur ríki. Enskt blað mikils háttar, Daily Telegraph, birti í haust einu sinni viðtal, er keisari hafði átt við einhvern enskan stjórnmálamann. Hann kvartaði þar um óviðráðanlega tortrygni Breta við sig saklausan, og

taldi sér margt til ágætis um góðvild og greiðvikni þeim til handa. Hann kvaðst meðal annars hafa afstýrt því, að hin stórveldin, aðallega Frakkar og Rússar, skærust í leik til liðs Búum í viðureign Breta við þá um árið, og meira að segja lagt ráðin á, hvernig hafa skyldi Búa undir.

Þetta hjal mæltist illa fyrir og varð úr úlfaþytur mikill bæði í blöðum Breta og Þjóðverja. En veizt að Bulow ríkiskanzlara óðara en þing kom saman í Berlín og hann sakaður um vanrækslu áríðandi embættisskyldu, er hann hafði eigi afstýrt því, að keisari léti þetta samtal frá sér fara til birtingar alþjóð. Lá við sjálft, að þetta yrði kanzlara að falli, og sefuðust þingmenn þá fyrst, er hann flutti þau orð frá keisara, að hann kannaðist við, að nauðsynbæri til að tala varlega jafnvel einslega og hvernig sem á stæði.

---

Hjal keisara hafði þau áhrif á Breta, að þeir sækja nú enn harðara róðurinn að auka herskipastól sinn. Þeim þótti sem þar hefði legið fiskur undir steini fyrir honum, að láta þá ugga miður að sér og fást eigi um, þótt Þjóðverjar ykju sinn herskipastól af kappi. Það var eitt í skrafi keisara, að vel mætti svo fara, aðhvorirtveggju gerðu samlög um hernað í Austurveg heims að hnekkja uppgangi stórveldanna þar (í Asíu austanverðri), og kæmi þá í góðar þarfir, að hvorirtveggju væri sem bezt vígir á sjó. En ekki gerðu þau ummæli nema að blása að kolum um tortrygni Breta.

---

Bandaríkjamenn í Norður-Ameríku kusu sér nýjan forseta 3. nóv., með því að embættistími Th. Roosevelt var þegar á enda runninn. Hann mundi þeir hafa viljað hafa áfram yfir sér, ef þess hefði verið kostur. En svo var eigi. Hann þvertók fyrir það. Enda þykir og hefir alla tíð þótt betur hlýða, að skift sé um forseta jafnan, er lög gera ráð fyrir, en það er á 4 ára fresti, eða þá að minsta kosti sami forseti eigi látinn vera við völd lengur en tvö kjörtímabil í senn. En Roosevelt tók við að McKinley látnum árið 1901.

En svo hefir Roosevelt kynt sig vel, að stórmikill meiri hluti varð með manni þeim, er hann lagði með. En það var William Taft hermálaráðgjafi, stórvel metinn atkvæðamaður, þótt vera muni minni skörungur en Roosevelt. Kjörmenn hans megin urðu 302, en 181 með keppinaut hans, William Bryan, er sérveldismenn

vildu kosið hafa. Hann hafði verið í forsetakjöri áður tvívegis, en borið lægra skjöld. Mælskuskörungur er hann einhver hinn mesti með Bandamönnum. — Hinn nýi forseti tekur við völdum 9. marz 1909.

---

Laust fyrir áramótin urðu syðst á Ítalíu landskjálftar meiri og mannskæðari en dæmi eru til hér í álfu frá því er fyrst fara sögur. Spjöll urðu mest á suðurtá meginlandsins, og í Sikiley næst sundinu þar í milli, Messina-sundi. Borgin Messina gjörhrundi. Ennfremur bæirnir Reggio og Palmi hinumegin sundsins, á meginlandinu, og margir bæir fleiri. Bæjarlýður í Messina var 155 þús., í Reggio 55 og Palmi 12. Manntjón sannfrétt 120 þús. Mesta landskjálftamanntjón áður hér í álfu 60 þús. Það var á Sikiley árið 1693. Drepsótt og hungurnauð fylgdi þeim ósköpum, og nóg spellvirki.

Mesta slys þessa mánuði er kolanámusprenging í Vestfali á Þýzkalandi 11. nóv., er varð 360 manna að bana.

---

Þjóðhöfðingjaskifti urðu seint á árinu í Kína. Kwangzu keisari lézt, svo og ekkjudrotningin, er þar hafði mestu ráðið um landsstjórn fullan mannsaldur. Hún hét Tsu-shi, skörungur mikill og vel viti borin, ráðrík og drotnunargjörn. Hún varð hálfáttræð, en keisari hálffertugur.

---

Dánir merkismenn árið 1908. Buller, enskur hershöfðingi frægur úr Búaófriðinum, 2. júní, nær sjötugur.

Campbell-Bannerman, yfirráðgjafi Englakonungs 1905—08, 22. april, 72 ára.

Carlos I. Portúgalskonungur 1889—1908, myrtur 1. febr., f. 1865.

Cleveland Bandaríkjaforseti 1885—89 og 1893—98, 24. júní, f. 1837.

Devonshire hertogi, brezkur, margsinnis ráðgjafi, 24. marz, f. 1833.

Drachmann, Holger, 14. jan., mesta skáld Dana, f. 1846.

La Cour, danskur vísindamaður og lýðháskólakennari í Askov, 5. apríl, f. 1846.

Michaelsen (Joseph), danskur póstmeistari, sá er fyrstur stakk upp á alheimsbréfburðareyri hinum sama, 12. apríl, f. 1826.

Sankey (Ira David), d. í ágúst, f. 1840, heimsfrægur kennimaður amerískur og sálmaskáld. *B. J*

---

# Ísland árið 1908.

## Frétta-ágrip.

Markverðasti viðburður þessa árs hefir gerst í stjórnmálum landsins, en það er starf millilandanefndarinnar og undirtektir þjóðarinnar og svar hennar við nefndartillögunum. Í júlímánuði 1907 skipaði konungur nefnd manna, 13 Dani og 7 Íslendinga, til þess að »rannsaka og ræða stjórnskipulega stöðu Íslands« og koma fram með tillögur um málið. Þessi nefnd settist á rökstóla í Kaupmannahöfn 28. febr. þ. á. Réð hún þar ráðum sínum og tefldi með tillögur tvo og hálfan mánuð. Hafði hún þá lokið starfi sínu. Kom þá í ljós, að nefndin öll gat eigi orðið á einu máli, en skiftist um skoðanir í tvent; annars vegar voru allir dönsku nefndarmennirnir og sex hinir íslenzku, en hins vegar einn íslenzki nefndarmaðurinn, Skúli Thoroddsen. Tillögur meiri hluta nefndarinnar komu fram í frumvarpsformi, »frumvarp til laga um ríkisréttarsamband Danmerkur og Íslands«, en Skúli Thoroddsen kom fram með breytingartillögur við það frumvarp. Um þær sömu mundir, er nefndin lagði fram tillögur sínar, kom opið bréf frá konungi, er tilkynti, að kosningar til alþingis skyldu fara fram 10. sept. þ. á., og að hann (konungur) mundi leggja fyrir alþingi tillögur nefndarinnar. — Þegar fregnin um nefndartillögurnar kom til landsins, komust hugir manna mjög á flug út af þessu máli. Hefir íslenzka þjóðin naumast nokkuru sinni á síðari áratugum orðið jafn-gagntekin af stjórnmálahugleiðingum og þetta sumar. Ræður manna í milli hnigu mjög að þessu máli. Blöð landsins fjölluðu að mestu leyti um þetta mál. Fundarhöld voru um alt land og ræðuhöld mikil. Breytingar urðu á hinni gömlu flokkaskiftingu. Þjóðin skiftist nú í tvo stjórnmálaflokka. Hélt annar flokkurinn fast fram frumvarpi því, er meiri hluti millilandanefndarinnar hafði komist á eitt mál um. Hinn flokkurinn var andstæður frumvarpinu að ýmsu leyti og hallaðist að breytingartil-

lögum Sk. Th. Flokkadráttur magnaðist mjög í milli frumvarpsmanna og frumvarps-andstæðinga. Aðalágreiningurinn milli þessara flokka var sá, að frumvarpsmenn litu svo á sem sjálfstæðis- og réttindakröfum Íslendinga væri fullnægt með frumvarpinu; en frumvarps-andstæðingar töldu frumvarpið gjörsamlega ófullnægjandi réttmætum kröfum Íslendinga um sjálfstæði og réttindi þjóðarinnar; þeir álitu og, að í frumvarpinu fælist réttinda-afsal í hendur Dönum í ýmsum greinum. Þjóðin kvað upp úrskurð sinn í þessu máli 10. september. Þá fóru kosningar fram um land alt. Kom þá í ljós, að stór meiri hluti þjóðarinnar var andstæður frumvarpinu, því að af 34 þjóðkjörnum þingmönnum voru 25 frumvarps-andstæðingar kosnir þingmenn. — Málið bíður nú byrjar til næsta þings.

---

Tíðarfar hefir verið mjög gott mestan hluta þessa árs. Árið byrjaði með einmuna blíðu, oft í janúar heitara hér á landi en í Færeyjum. Veturinn var allur mjög mildur, og hefir eigi komið jafn mildur vetur síðan 1879—80. Á Suðurlandi gátu menn unnið að húsasmíðum og jafnvel jarðabótum mikinn hluta vetrar. Heyskortur varð mjög óvíða, þótt bændur væru miður birgir af heyforða undir veturinn. Vorið var víðast um land nokkuð kalt framan af. Sumarið var í betra lagi um land alt; rigningar um miðsumarið á Suðurlandi, og urðu þar nokkurar skemdir á heyjum vegna óþurka. Haustið var hlýviðrasamt, votviðri á Suðurlandi og stormaköst nokkur. Á Norðurlandi urðu menn tæplega varir við vetrarveðráttu fyr en eftir miðjan nóvember. Á Suðurlandi hefir verið góð tíð oftast nær fram að áramótum.

---

Fyrir landbúnaðinn hefir árferði verið fremur gott að því leyti, að afurðir hafa orðið meira en í meðal-ári, en miður góð verzlun hefir dregið úr því, að þær yrðu bændum arðsamar. Heyfengur varð með bezta móti í sumar nálega um alt land: Mestur heyforði á landinu í sumar varð á bæjunum Hvanneyri í Borgarfirði og Kallaðarnesi í Árnessýslu. Jarðabætur hafa verið gerðar þetta ár að minsta kosti eins miklar og síðasta ár, jafnvel meiri; sérstaklega hafa aukist girðingar að miklum mun. Mjólkurbú hafa komið tvö ný í viðbót við 34, er áður voru.

---

Argæzka til sjávarins var mikil framan af þessu ári í öllum helztu veiðistöðum sunnanlands og vestan, bæði á opin skip og þilskip, og ekki sízt á botnvörpuskipin íslenzku; en aflinn varð minni er á leið sumarið. Á Suðurlandi og Vestfjörðum hefir fiskaflinn um allan tímann orðið með bezta móti; á Austfjörðum líkt og í meðal-ári og svipað á Norðurlandi. Vélarbátum hefir fjölgað og nokkur innlend botnvörpuskip hafa bæzt við. Útlendum skip um hefir fjölgað við fiskiveiðar hér við land þetta ár. Norðmönnum þeim fjölgar nú árlega, er stunda síldarveiðar við Norðurland. Frakkar hafa fært út kvíarnar í ár og fjölgað fiskiskipum hér við land. En einkum eru það Danir, er hafa lagt meiri hug á að fiska hér við strendur landsins, en hingað til hefir verið. Fiskiveiðafélag var stofnað á síðastliðnu ári suður í Danmörku til þess að reka fiskiútgerð hér við land. Aðalstöð sína hefir nú félag þetta á Reykjanesi syðra. Úr ríkissjóði Dana voru veittar 100 þús. kr. þetta ár til eflingar atvinnurekstri þessum hér.

---

Verzlun hefir verið miður góð þetta ár. Flestar íslenzkar vörur í lágu verði. Smjörsalan ein hefir gengið mjög vel; íslenzka smjörið er stöðugt að ávinna sér gengi í útlöndum, og hefir fengist fyrir gott rjómabúsmjör erlendis yfir 90 a. pd. Ullarverð hefir fallið um þriðjung frá í fyrra, hæst nú 50—60 a. pd. Kjötverð hefir lækkað mjög. Sala á kjöti, er fram hefir farið í haust, er mjög slæm, bezt 50—60 kr. t., (í fyrra yfir 70 kr. bezt); ilt útlit nú með kjötsölu. Fiskverð hefir lækkað um nál. 20% frá í fyrra, bezt þá nál. 80 kr. sk., nú hæst 60—70 kr. sk. Óáran hefir verið hin mesta í peningaviðskiftum hér á landi alt árið. Ísland gat eigi farið varhluta af peningavandræðum þeim hinum miklu, er heimsóttu mikinn hluta Evrópu og stöfuðu frá hinum alræmdu amerísku stórgróðasamlögum. Og þessi peningavandræði hafa haft verri afleiðingar hér á landi en víðast annarstaðar. Vegna þess að landið er í mikilli framför í ýmsum greinum, hefir peningaskortur landsmanna dregið í stórum mæli úr ýmsum framförum og arðvænlegum fyrirtækjum. Vextir af bankalánum hafa verið hærri en nokkuru sinni áður hér á landi. Í byrjun ársins voru þeir $8^1/_2$%, en þegar á árið leið, lækkuðu þeir nokkuð; í október voru þeir komnir niður í 6% og haldast svo enn. Bankarnir hafa verið mjög tregir á að lána fé og hefir átt mikinn þátt í því getuleysi þeirra, er stafar af skuldaviðskiftum þeirra við er-

lenda banka. Peningaþröngin nú í árslokin gerir útlitið mjög ískyggilegt, hætt við að peningaskorturinn hafi víðtæk áhrif á hagi landsmanna, ef eigi verður viturlega ráðin bót þar á.

---

Samgöngur á sjó hafa verið með betra móti þetta ár. Strandferðirnar betri en síðastliðið fjárhagstímabil, þótt því fari fjarri, að þær sjeu fullnægjandi enn. Samgöngur við útlönd hafa batnað að stórum mun. Skip Samein. gufuskipafélagsins og Thorefélagsins hafa farið svipaðar ferðir og að undanförnu, en skip O. Watneserfingja hafa farið miklu fleiri ferðir þetta ár en áður, alls 23 ferðir milli Kaupmannahafnar, Norvegs og Íslands, (aðallega til Austur- og Norðurlands). En auk þessa hefir orðið mikil samgöngubót að 5 ferðum, er Björgvinjar gufuskipafélagið í Norvegi hefir látið skip sín fara hingað til lands í sumar. Er þetta að eins tilraun, en halda mun félagið áfram ferðunum, ef árangurinn verður góður. — Til samgöngubóta á landi er símalagning hið helzta, er gert hefir verið. Sími hefir verið lagður á þessu ári frá Hrútafirði til Ísafjarðar og þaðan til Patreksfjarðar; sömul. á Austfjörðum milli Eskifjarðar og Fáskrúðsfjarðar.

---

Ýmsar ákvarðanir frá síðasta þingi hafa komist í framkvæmd á þessu ári, svo sem stofnun lagaskóla og kennaraskóla, er báðir tóku til starfa 1 október síðastl. Fyrir kennaraskólann var reist hús sunnanvert í Skólavörðuhæðinni við Rvík en húsnæði hefir orðið að leigja handa lagaskólanum. — Samkvæmt lögum frá síðasta þingi hefir Hafnarfjarðarverzlunarstaður öðlast kaupstaðarréttindi frá 1. júlí síðastl.

Samkvæmt þingsályktun neðri deildar alþingis 1905 og auglýsingu frá landsstjórninni 4. ágúst þ. á. fór fram jafnhliða alþingiskosningum 10. sept. um land alt almenn atkvæðagreiðsla alþingiskjósenda um það, hvort lögleiða skuli bann gegn aðflutningi áfengra drykkja. Atkvæðagreiðslan fór svo, að með aðflutningsbanni voru greidd 4897 atkv., en á móti 3248 atkv.

---

Ameríkuferðir hafa engar verið, er teljandi sé, þetta ár. Þar á móti hafa nokkurir tugir Íslendinga vitjað heim til átthaganna, al-fluttir vestan um haf.

---

Á þessu ári hefir verið gerð leit mikil eftir kolanámum í Dufansdal í Barðastrandarsýslu og á Skarðsströnd við Breiðafjörð í landi jarðanna Níps, Tinda og Heiðnabergs; er álit fróðra manna í þeim efnum, að á báðum stöðunum muni vera steinkolanámur, en óvíst enn, hversu aðgengilegar þær séu.

---

Brunar hafa orðið miklir á þessu ári. Eru hér taldir flestir þeir stærstu: Um áramótin síðustu brann hús Helga bakara Eiríkssonar í Keflavík. 29. jan. brann verzlunarhús Guðjóns og Hallgríms Hallgrímssona á Hjalteyri við Eyjafjörð. 13. marz brann íbúðarhús N. Nielsens kaupm. á Seyðisfirði, kvenmaður skaðbrendist þar og dó nokkuru síðar. 13. apr. brann mestallur bærinn á Víðivöllum í Skagafirði. 24. júlí brann íbúðarhús í Skarfanesi á Landi. 10. okt. brann bær á Þrasastöðum í Fljótum. 18. október brunnu þrjú hús í Akureyrarkaupstað, Hótel Oddeyri og verzlunarhús Sigurðar Fanndals. 30. nóv. brann smíðahús Antons Jenssonar á Akureyri.

---

Heilsufar. Mislingar komu upp vestur á Snæfellsnesi í fyrra sumar, hafa þeir farið víða um land síðan, en víðast hafa þeir verið vægir. Barnaveiki hefir gengið á þessu ári hingað og þangað um alt Vestur- og Norðurland en verið mjög væg. Kíghósti hefir og gengið þetta ár víða um landið.

---

Nokkur mannalát og slysfarir: Fyrir síðustu áramót andaðist Friðrik Gíslason úrsmiður og bæjarfulltrúi á Seyðisfirði.

3. jan. Zophónías prófast Halldórsson Viðvík í Skagafirði 62 ára.

5. jan. Júlíus Jörgensen verzlunarm. Reykjavík.

15. jan. Andrjes Bjarnason söðlasm. Reykjavík.

18. jan. Gísli Oddsson frá Lokinhömrum.

14. febr. Guðný Sigmundsdóttir kona Eyjólfs bankastjóra á Seyðisfirði.

25. apr. Pétur Jónsson blikksmiður í Reykjavík.

